ARNE GARBORG:

# HULIÐS-HEIMAR



REIKJAVÍK
1906

ARNE GARBORG

# HULIÐSHEIMAR

ÞÍTT HEFIR

BJARNI JÓNSSON
FRÁ VOGI



REIKJAVÍK
BÓKAVERSLUN GUÐM. GAMALÍELSSONAR
1906

**Árni Garborg** er af fátæku fólki kominn og ættaður af Jaðri, þar sem ríki Erlings Skjálgssonar var. Hann fæddist 25. janúar 1851. — Faðir hans var kennari og trúmaður hinn mesti og vandlætari. Árni varð og fyrst kennari og gaf út kennarablað um stund. Þó hætti hann við það vonum bráðar og fór til Oslóar og varð stúdent þar eftir tveggja ára nám. Hann var í firstu trúmaður og vandlætingasamur við rithöfunda og þar á meðal við Björnson og Ibsen. En hann unni fósturjörð sinni og var maður frjálslindur. Var þess og skamt að bíða að hann irði jafnfrjálslindur í trúarefnum sem öðru. Hann tók að gefa út blað 1877, er hann nefndi „Fedraheimen." Var það ritað á norsku máli (sveitamáli). Varði Árni það af mestu snild og trúði því fastlega að það mundi sigur hafa ifir dönskunni. Er nú og svo komið, að það hefir fengið jafnrétti í skólum og á þingum. Mun þess nú skamt að bíða, að það vinni fullan sigur. Hefir Árni átt mikinn þátt í því, er hann hefir ritað fjölda ágætra bóka á þessu máli.

Vinsælust og fjöllesnust af öllum hans bókum er þó sú, er hér birtist í íslenskri þíðingu.

Stúlka ein á Jaðri er skign, og sér allar vættir illar og góðar. Er bókin ævisaga hennar og segir frá

öllum þeim undrum, er henni bar firir sjónir. Árni hefir með mikilli snild fléttað margvíslegar þjóðsögur og þjóðtrú saman við sögu hennar og auk þess margvíslegar heimsádeilur.

Á frummálinu eru kvæði þessi ágætlega kveðin. Ég hef hinn síðasta áratug freistað að snúa þeim á íslensku i hjáverkum mínum. Þótt kvæðin hafi mikils mist í meðferðinni, vona ég þó að þau geti sér vini hér á landi. Vona ég að menn virði mér á hægra veg það, sem illa hefir tekist, því að hættir eru dírir og erfitt verk að þíða.

Innan skamms vonast ég eftir að geta látið síðara hlut bókarinnar birtast. Hann heitir „Í helheimi.“

*Bjarni Jónsson,*
frá Vogi.

Ég gef mín kvæði grónum hól
og grænni hlíð,
þar lóan heilsar sælli sól
og sumartíð.

Og kvæði mín um ljúflingslíð
og leint hvað er,
þú fölnað ling und fjallahlíð,
ég færi þér.

Ég þekki leindar Dvalins dir
og dimma nótt,
og þótt það hug minn hræddi fir,
það heim læt sótt.

Og hafgúunnar hljóð ég kann
og huldar söng,
mér kaldan hroll sú kingi vann
um kvöldin löng.

Og glímutökin gerast sein,
þeim galdur ver;
á huldu illa brotna bein.
Guð bjargi mér.

*    *    *

Ég sá það vel, hvar lá þín leið,
er lukkan sveik.
Ég veit, hve þínum sefa sveið
í sárum leik.

Við feikn ég átti og fangatak
um fjölmörg ár
með karlmannshug, með bogið bak
og blóðug sár.

Þú hnigins andi, helst að mér
þú heldur þig.
Þín óför helst mér hugstæð er
og hriggir mig.

Ég man það vel: Það vonskulið,
það viljaafl
og lamb, sem þreitir ljónið við
um lífið tafl.

*    *    *

Nú singur fugl á gleimdri gröf
sín gleðiljóð,
og golan þítur heim um höf
svo hrein og góð.

Um harms og ógna löndin löng
þótt lægi spor,
ég trúi að fögrum fuglasöng
nú filgi vor.

---

# Heima.

## Telpan við rokkinn.

Það haustar. Húsin smígur
nú hregg og golan stinn
og fugl að glugga flígur
og feginn vildi inn.
En upp við eldastó
á kisu svefnþrá sígur,
hún situr þar í ró.

Í dvala hana dreimir
við dags og nætur skil,
hún víðri veröld gleimir
í værð og góðum il.
Og ekkert orð er sagt,
hún skap sitt skrumlaus geimir,
en skott í hringa er lagt.

Í sínum silkifeldi
hún situr við arinkinn
og kúrir kir hjá eldi
með klærnar dregnar inn.

Hún unir rökkurró,
þótt komið sé að kveldi,
af kappi hún malar þó.

En hvaða hugfró bíður
þér hírlegt draumatal?
Í minning langt þú líður
að ljúfum bernskudal,
þar firstu fanstu von,
er vorblær þuldi þíður,
en þú varst konungsson.

Í skóginn fagur og fríður
þú fórst um aftanstund,
og hár þér hrundi á síður,
með hermans gilda lund;
en inst þar inni bjó
þó svannablóminn blíður,
sem berin tíndi í mó.

Þá gekk fram glöð í bragði
þar galdranornin ein;
úr tröllheim fornu flagði
hinn fríða leist á svein.
En burt hann reiður rann,
og kerling kalt á lagði:
að ketti gerði hann.

Svo vaða strauma stríða
og stökkva gjár hann varð
og fara furðu víða,
uns fann hann okkar garð.
Hér raskast ró hans ei,
hann hér má heljar bíða
og hugsa um sína mei.

Æ, gola og gustur smígur
í gegn um vegg og þil
og fugl að glugga flígur
sem fá sér vilji il.
En upp við eldastó
nú svefn á kisu sígur
og sætra drauma ró.

## Rökkur.

Þekur mjöll
þúfu og völl,
þúngbrín skíin drúpa.
Fellur létt,
fellur þétt,
feldinn ifir heitótt slétt
breiðir bjarta og gljúpa.

Leisir hei
lítil mei
létt í spori og geði,

heirir þá
hlátra smá;
helst er kírnar skamtinn fá
búálf gerir gleðí.

Sér hann æ
alt á bæ,
alt, er misferst, bætir.
Ár og síð
alla tíð
er hann með við gleði og stríð;
fús hann fjóssins gætir.

Hann veit því
huga í,
hvers hann vonað getur:
Mjúkhent hrund
mild í lund
mjólkurskál um aftanstund
hans á hillu setur.

Sú er mær
kúnum kær,
klappar þeim og gælir;
gott þeim ber,
gamnar sér,
góð við skepnur jafnan er;
aldrei álfinn fælir.

Brunni þá
þvínæst frá
þorstadrikknum nær hún.
Ber svo ljós
bjart í fjós
bíst að mjólka kírnar drós;
fulla skjólu fær hún.

Þæglát kír
þar að bír,
þikir lífið gaman.
Bætir á
álfur þá,
unir síðan kisu hjá.
Dátt þau dansa saman.

### Hjá ofninum.

Alt inni er starfað og eins við fjósið,
þó er ofbjart til að kveikja ljósið.
Hjá hestum dvelst honum Halla um stund,
en húsfrú tekur sér rökkurblund.

Af næsta bæ þá í bæinn ganga
hann Bjössi smali og hún litla Manga.
Við sögur gott er að gamna sér,
ef glóð í ofninum lífleg er.

Til rökkursvefnsins þau tímann telja,
því *telpan* sögurnar kann að velja.

Hún segir alskonar ævintír
og ótal sögur um tröll og dír:

„Hann Helgi á Felsenda flæktist víða,
hann frammi á bæum var lengi að smíða.
En áköf villa kom ifir hann
við Álfastapa, er heim hann rann.

Það var sem leiðunum væri snúið,
það var sem klettarnir hefðu flúið;
og vötnin öll runnu upp á mót,
og áttum ruglað og sjór var grjót.

Hann gleimdi alveg, hvar átti hann heima,
og altaf var hann í hring að sveima.
Hann hleipur kappskeið við hrævareld,
það hallar degi og nálgast kveld.

Hann var sem áfram með afli dreginn,
í hrískógum hann þekti veginn.
Þá varð hann hræddur — hvað haldið þið —
og hlaut nú enn þá að snúa við.

Í för og dimmu varð dapur flóttinn.
Það dimdi altaf sem leið fram nóttin:
Um veginn breiða ekki vissi hann grand
sem væri hann kominn í annað land.

Oft skriðnar fótur á fausk og steinum,
uns fram hann kemur að hvammi einum.

Hann staðnum ókunnur alveg var,
en óðar bæ einn hann lítur þar.

Af gleði þrautum hann gleimir þegar
og gengur inn til að spurja vegar.
En orðfall varð honum. Aldrei hann
slíkt áður séð hafði glæsirann.

Þar hátt og látt alt í ljóma glitrar,
á lísigulli hver geisli titrar.
Þeim hringlar gullskraut um háls og bak
og hár og brjóst við hvert fótatak.

Hann gleimir, hví hann kom hér á slóðir,
því hér eru allir svo tjarska góðir.
Þeir flikkjast allir um einan hann
með allan beina sem konungmann.

Í silkisessi þar allvel undi 'hann
og öllu gleimdi sem firri mundi 'hann.
Hann starir hugstola og horfir á
og hinum naumast hann svara má.

Og mjöðinn ber honum bóndadóttir,
þar bæta úr þorstanum ölsins gnóttir.
Svo fagra mei hann ei firri sá
með Freiuketti und ljósri brá.

Og augun til hennar óðfús renna
og ástúð hennar vill sálu brenna.

En kallinn brosir í kampinn þá:
„Þá konu máttu, ef viltu, fá“.

„Ef konu bíðurðu og bæinn ríka,
ei betur mundi mér annað líka“.
„Hann færðu, er geimir mig gröfin köld,
en giftir þig núna strags í kvöld“.

Nú fór alt skaplega fram á nóttu,
er fóru brúðhjón í sæng um óttu;
þá skinja'alt hann í einu má,
því álfarófu á brúði hann sá.

Þá hræðist hann, en þó hlæa tíðir;
en hníf sinn tekur hann upp um síðir.
Þá æpir hástöfum álfasprund
og alt var horfið á sömu stund.

Þar liggur hann undir Hulduöldu
með höfuðverk og með gigt og köldu.
Nú sér hann, hví slíka för hann fær:
hann faðirvor aldrei las í gær.

En síðan oft, þegar aleinn fer hann,
þá álfabrúðina gömlu sér hann.
Með tárga brá hún þá barmar sér:
„Hví braustu gæfuna af mér og þér?“

Og ílt er þeim meðal þussa að vera,
sem þekkja betra og harmar skera.

Það bír víst margur í bergi og hól,
er bjartan margþráir dag og sól.

### Spörfuglinn.

Um tún og græna teiga
hann tínir bæði korn og strá
og hér vill heima eiga
og hlær að kisu grá:
„Hún læðist létt um grundir,
langar stundir
mig eltir á allar lundir,
en aldrei skal mér ná.

Eg er svo léttur á mér
og út um sleikja kisa má,
er sér mig fljúga frá sér,
en filgt ei getur þá.
Er haukar hjá mér fljúga
hringi bjúga
og undan æ mun smjúga
og öllum slepp eg frá.

Eg lifi daga létta,
á lífsins gleði kann eg skil
og hvern dag magann metta,
því margt er hérna til.
Eg korn mér tíni og töðu,
tek í hlöðu,

og nít með geði glöðu
svo góðs sem bara eg vil.

Og ég á gott um jólin,
um jólin telpan gefur mér;
í hörkum hef eg skjólin,
því heiið sæng mín er.
Svo bíð eg vorsins blíða,
betri tíða;
þá flíg eg hátt til hlíða
og hreiður biggja fer.

## Kveður í holti.

Þíða og úði og blíður blær
bjartur máninn um nóttu hlær.

Geislum stöfuð úr himins hil
hverfist þokan um fjöll og gil.

Skuggar hefjast og hverfa frá,
hlír fer gustur um lönd og sjá.

Lífið töfrandi binda bönd
breiðist svefn ifir hlíð og strönd.

* * *

Telpan sefur en geisli gljár
glaður leikur um enni og brár.

Vöku milli og svefns hún sér
svipi og skugga, er firir ber.

Álfa á gangi við gluggann ber,
golan með þit um hornið fer.

Þiturinn breitist í hreim og hljóm,
heirir hún singja mjúkan róm.

* * *

Ef manstu þinn draum og manst þenna söng,
þú muna skalt lengi þá hreima;
þeir gleðja og kæta um kvöldin löng,
og kvæðinu mátt þú ei gleima.
Þú hugljúfa hír,
ef hjá mér þú bír,
í Hólaborg rokknum úr silfri snír.

Þú þarft ei að óttast þögula nótt,
er þegjandi ræturnar spretta.
Þú draumhallir sást, einnig sönglaga gnótt
í svefninum heirðirðu létta.
Það frævist í blund'
og blómgast í lund
og birtan ei kennir þá sælustund.

Og hræðstu ei, er dregur upp dimma nótt
og draumar til flugs sig hefja
í mildara ljósi en dagsins drótt
og draumhljómum eiru þín vefja.
Þeir svífa um hlíð
og sefa allt stríð
svo sæla ei dagurinn þekkir tíð.

Og láttú ei hræða þig hljóða nátt,
er horfir um skugganna geima
og sér gegnum ógnir með undramátt
langt, inst inn í draumanna heima
og vaggar þér hljóð
og hjúfrar þér ljóð,
er hressa þig þreitta af sólarglóð.

En hræðstu þó minst þá hjartnanna þrá,
er hrasar og tregar og gleimir,
og eldinn sinn vekur oss öllum hjá
og óarga dír saman teimir.
Þú hugljúfa hír,
ef hjá mér þú bír,
í Hólaborg rokknum úr silfri snír.

**Firirboði.**

Telpan í draumadúrum
í dögun sofin lá;
og sistur sína heitna
hún sá við rúmið þá.
Og dánarblæur bilgjast
um barm og ljósan háls,
en dagsbrún línið lísir
sem ljómi öldubáls.

En silfur-bikar bjartan
hún ber í grannri hönd
og lítur sistur sína

með sorg og varpar önd:
„Mín elsku, unga sistir,
sem ert svo ljúf og hrein,
eg ber þér bikar djúpan,
sem bergja skaltu ein.

Þér sköpuð eru örlög,
sem engir verri fá;
þá hluti, er skuggar hilja,
þú heira skalt og sjá.
Og lævís snara löngum
mun lögð á veginn þinn
og ljúfir ómar lokka
þig, litli aumingiun.

Æ, vertu varkár, sistir,
þinn vegur mirkur er.
En fatist fótatakið,
ei fjarri stend eg þér.
Æ, mundu vel, æ mundu
að mirk og hál er leið,
en ljúf, er líður nóttin,
þér lísir sólin heið“.

Og telpan bregður blundi
og bestan gest vill sjá.
En morgungeislinn gægðist
um gluggann bjartur þá,
og sistir hennar heitin

þá hvarf í ljósið fljótt.
En inni heirðist andvarp
og alt varð kirt og hljótt.

**Sunnudagskirð.**

Frost er úti og fíkur í skjól,
fölleit drúpir nú vetrarsól
og fannir raunaleg roðar.
Þokan faldar nú fjallabrún,
frostdögg grætur á bæ og tún
og vetur vindsvalan boðar.

Gamla konan með gleraugun sín
guðsorð les, en úr augum skín
nú hugsun um hvíld og dauðann.
Unga fólkið það fagnar nú,
flikkist saman og tekur bú
alt utan um ofninn rauðan.

* * *

„Hver er það, sem þítur og þagnar aldrei
í þekkri hlíð?“
„Lækurinn er það, sem aldrei þagnar
um alla tíð“.

„Hver höggur altaf, en engum spæninum
af þó nær?“
„Klukkan hamast og heldur áfram
og höggur og slær“.

„Hver er sú ull, sem húsin fillir,
en handsamast ei?“
„Reikurinn fillir húsin, held eg,
en handsamast ei“.

„Hvert er það svell milli hlíu og kulda,
sem horfi eg í gegn?“
Það liggur hvorki inni né úti,
né eiðist við regn“.

„Rúðan hún er milli hlíu og hita,
ei hjaðnar við regn,
og hvorki liggur hún inni né úti,
en alt sést í gegn“.

„Hnöttótt sem egg en alveg eins langt
eins og upp firir bæ?“
„Bandhnikill eflaust, ef upp er rakinn,
nær út firir bæ“.

„Fjórir ganga, fjórir hanga
fullir og mettir,
tveir vita upp en tveir að garði
en einn dregst á ettir?“

„Á kú eru fjórir fætur og spenar
fullir og mettir,
horn vita upp, en heim vita augu
og halinn á ettir“.

„Dökkleitt að neðan, en drifhvítt ofan
það daufa hressir?“
„Efst situr froðan, en undir bjórinn,
sem alla hressir“.

„Í frostum blómgast feikna tré,
en fölnar á vorin,
rótin veit upp en ofan veit toppur
örmjótt skorinn?“

„Skriðjökull er það skammdegis tré,
sem skemmist á vorin,
með ræturnar upp en oddinn neðan
örmjótt skorinn.“

„Drottinn aldrei um eilífð sér það,
en eg sé það hvern dag?“
„Sinn líka drottinn sér víst aldrei,
við sjáum hann hvern dag.“

„Um morna skríður á fjórum fótum,
en fer á tveim
um miðjan daginn og dregst á þremur
um dagsetur heim?“

„Barnið gengur á fjórum fótum,
fullorðinn tveim,
ellin bætir við staf til stuðnings
og staulast heim“.

# Ófreskissínir.

## Gamla konan bíður.

Í kolaglæður glittir
og glóir ofninn hlír,
en gamla konan í gömlum sess
þar gamla rokknum snír.

Og hrum og hrörleg er hún
með höfuðklæði svart;
hún vaðmálsríum reifuð er
og rær og hugsar margt.

Og hrumum sléttir höndum
hún hnökra bandsins þá;
en rokkurinn kveður sönginn sinn,
er síst hún hlíðir á.

Á gólfi og gömlum veggjum
nú grúfa næturtjöld
og alt sem geimir hinn gamli bær,
það gleipir dimman köld.

Úr mirkheim dökkva dregur
með dimmu-úfna brá;
hann gneipur er og geispar mjög
og glápir húsið á.

Og upp úr dimmum dökkva
sem dánarvofa hljóð
þá skugginn af henni sjálfri sést
þar sitja í aringlóð.

Og skuggi af rokknum riðar
í roða glæðum frá;
og skugginn rær við rokkinn sinn
sem rær hún sínum hjá.

Og glæður gerast daufar.
og glæður fölskvast ótt.
En margt í hugann hvarflar:
„Hvað er á ferð í nótt?“

Og ömurlega fer úti
um anddirið golan köld.
Hvíldarlaust reikar hugurinn:
„Hvað er á seiði í kvöld?“

*    *    *

Þá hættir hún í svip
og hlerar sem hún má;
hún heirir hlaupið ótt
sem hættu dauðans frá.

Og andvörp þreitu-þung
og þungan andardrátt
og bænar innfjálg orð
og æða og hjarta slátt.

Hún rís og signir sig.
um sálu kvíðinn fer,
af ótta glúpnar geð:
„Æ, guðs son hjálpi mér“.

Og tíminn tefur mjög
og tíminn fer svo hljótt
og tíminn gleimir gangi:
„Æ, gef mér frið í nótt“.

Og úti er ilt og dimt
og ílfrar golan köld
og úti gustar gnía:
„Æ, gefðu frið í kvöld.

Og aumingin minn er
nú ein á mirkum stig,
þar hræðsla bír og hrollur
og hrópar, guð, á þig.

Nú heiri eg ekki hót;
æ, hjálpi drottins mund
nú aumingjanum úti
og inn á móður fund“.

*   *   *

Þá heirir hún á ní
þau hlaup sem áður fir
og erfitt andartak
og opnast sér hún dir.

Þar steðjar stúlkan inn
um stofugöngin kunn
með æðisgengin augun
og opin þurran munn.

„Æ, elsku mamma mín,
svo mart eg hefi séð
þar úti í Álfamóum
að óttinn filti geð“.

„Hér er þér óhætt, barn,
hér er ei vofa nein.
Eg heirði, hve þú flaugst,
hve hrædd þú varst og ein.

Eg heirði, og hrökk þá við,
hve hljóp hún, filgjan þín.
— Hér, súftu sopa af mjólk
og sestu, telpa mín“.

## Telpan.

Hún er döpur en björt á brá
og brún og grönn á kinn,
en augun benda blá
í blíðheim draumanna inn.

Það er eins og sofi sál,
en svefninn er léttur þó,
og hreifing, hugur, mál
er hjúpað í drauma ró.

Ennið fagurt, fremur þó lágt,
fölskvuð augun sem dulin hjúp,
sem stari þau eina í átt
langt ofan í huliðsdjúp.

Hún gengur í ofnskot inn,
sest, án þess að vita þó,
og líkur við sopann sinn,
þá sígur á hana ró.
Andartök hennar eru þung,
en á ifirlit föl og bleik
er hún, titrandi, viðkvæm, veik
en væn og fögur þó og ung.

## Sínin.

„Nei, mamma, trúa þú mátt því,
að þar var síst nein misgát í,
og ætla ei mig dreimi.
Ég veit að firsta sinni sá
eg sínir gegn um dirnar þá
á duldum huliðsheimi“.
— „Þín sjálfrar feigð á sveimi“.

„Æ, sirg þú ekki, mamma, mig,
því mér ei bráðla svifta þig
mun dauða djúpsins ilgja.
En bana í kveld fékk bróðir þinn,
hann birtist mér í Grafarkinn
sem brostin maureldsbilgja".
— „Æ, ef eg fengi að filgja".

„Þá huldi dimman hól og dal
og húmið vegi og fjallasal,
eg guðsorð hug lét hugga,
og grafarkirð á landi lá
sem lífið fjelli í svefn og dá,
en mig tók ilt að ugga".
— „Sá dauði dilst í skugga".

„Eg kendi ei ótta, er eg sá
sem út úr skugga maður þá
í mánaljósi liði.
Eg þekti hann vel og var því stilt.
„Nú vertu sæl", hann hvískrar milt
og leið af sjónar sviði".
— „Æ, farðu í drottins friði".

„Og náligt andrúm alt mér fól,
en útburður í holti gól,
af ótta eg ei mér réði;
og örvita heim allan veg
uns inn hér kom þá hentist ég.

En minning mér fær gleði".
— „Nú svali guð hans geði„.

## Hólafífl.

Þær heirðu seinna
með hrolli í lund
að hann hefði dáið
þá sömu stund,
á einmitt því augnabliki.

Þá titraði og skalf
hin ingri öll:
„Nú á ég að sjá
bæði drauga og tröll
og náhjúpi vafðar vofur".

„Guð hjálpi þér þá,
mín hjartans mei;
þá held ég þér betra
að lifa ei
og fengirðu frið í moldu".

„Nei, eg vil heldur
með augum sjá
en álpast blind
hérna jörðu á
og síst hið sanna skilja!"

Héðan af sá hún
um hól og völl
allar huliðsvættir
og drauga og tröll
og náhjúpi vafðar vofur.

Oft muldraði hún
firir munni það,
sem móður hennar
var geigur að;
menn héldu hún vitskert væri.

Og norður í haga
við hóla þrjá
hún hafðist mest við
og sat þar hjá.
Og Hólafífl var hún heitin.



# Jól.

## Æskan.

Á jólunum eitt sinn, á annan dag
er alt hjá þeim mæðgum með gleðibrag,
þar flokkast nú fólk til kæti.
Engan þar vantar, þótt ófærð sé
illir vegir og krap í hné
og allir þó fari á fæti.

Eg veit, hve það er um æskunnar tíð,
eftir erfiði dagsins og þreitu og stríð
er leikur ljúfastur geði.
Þá hoppar og stekkur maður og mær
og masar og tuskast, er valdi nær
á huganum hlátur og gleði.

Og kátir sveinarnir kneifa mjöð,
svo kona og sveinn stíga dansinn glöð
og halda þá höndum saman.
Og hæ! kallar sveinninn og sveiflar snót,
er svífur við arm hans með léttan fót
og brosir við blóðrjóð í framan.

Og gleðin sig læsir ljúf um barm,
laust er geðið við sorg og harm
og eldfjör í æðum streimir.
Hugur iðar og auga hlær,
ástin logar og hjartað slær,
enginn því indi gleimir.

En vakni reiðin og hefjist hark
og handalögmál og drikkjuslark,
þá kemur hinn illi andinn.
Hann ber á milli öfundarorð
og af því rísa svo deilur og morð,
því slíkan fagnað vill fjandinn.

Það bakar sveinunum sæmdarrán
og svönnum angur og böl og smán,
og fagnaði í bölvun breitir.
Og því skal gaman mitt græskulaust
og gæta vil eg að drottins raust,
er miskunn oss mönnum veitir.

## Dansinn.

Nú glaðnar, er strengleikur tekur til,
hann grætur og hlær,
þegar góður slær;
æ, hjá mér, ljúfa, þig hafa eg vil;
við hefjum dansinn saman.
Nú skilnaður langur á enda er
og langvinn þrá

er nú liðin hjá,
og loksins fegin við hittumst hér;
en hvað það verður gaman!

Eg man það enn, úti á engjateig
eg bríndi og sló,
hún breiddi og hló;
við hvíldumst saman, er sólin hneig
um sumarsins blíðu daga.
Ég horfði á þig, þú horfðir á mig
og glatt var þel,
þá gekk alt vel;
þá hugsaði ég: alt jafnar sig
og ég veit, sig alt mun laga.

Og unga mærin mín,
eg man svo oft til þín,
og hugsa hlítt
og hermi títt:
Æ, fengi eg að finna þig.
Því hér er svart og svalt
og síþegjandi og kalt,
en væri hún hér,
er hugfast mér:
ég sítti ei meir um mig.

En stigum nú dansinn með léttri lund,
því nú hvarfar sól
og nú hvarfa jól;

og dönsum nú, kæra, í köpp um stund;
slíkt kalla eg veislulæti!
En annar dans kann að verða í vor,
hæ, gaman gull
og gleði full!
þau verða' okkur auðstigin indisspor,
er alt skín af von og kæti.

Og gleði þing
við gígnahljóm
svífur í hring
og söngva óm
og braustur sveinn
sem hlinur beinn
með hrund í dansinn treður.
Þeir dansa hart,
svo að dunar við;
þar eikur mart
á munarklið
og horskan svein
og silkirein
þar sælu vonin gleður.
En fáorð mær
er mjög svo vör,
við spaugi hlær,
en sparar svör,
blóðið brennur,
bjórinn rennur,
fiðlan fagurt kveður.

En *Hólafífl* situr þar hornbekk á
og horfir í gaupnir og kveður.
Hún sér það, sem engir aðrir sjá
og ærslast og dansinn treður.
Því kvikindi ljót
með fimlegan fót
þar flagsast sem skuggar á gleðimót.

Með hverjum manni þar filgja fer,
sem filgispök honum reinist,
og verri hver þar annari er,
þótt augum þeirra hún leinist.
En mættu þau sjá,
nóg mundu þau fá
og mannvonsku sinni hverfa frá.

Hann Teitur Gullmunnur gildur og hár
oft geð trúi eg svönnum véli,
en filgjan hans, það er hani grár
með hanakamb spertum og stéli.
Júlli Mannvitsskrín
hefur saurugt svín
en soltin ref Grímur Mjúkatrín.

Þar vappar hún, giltan grísafull
með garminum Lata-Snjólfi,
þar eltir hann Kristján Kvennagull
einn kumrandi bukkur á gólfi.

Hann blíðmálga Svein
með sætindin ein
eltir sártentur vargur, er gerir mein.

Með Ásbirni Matgogg er mögur kind,
sem matbjörg fekk ekki neina,
og Magnúsi sterka merglaus hind
og mörðurinn Einlæga-Steina.
Hann háværi Karl
telst hreistisnjall,
en hérinn hann eltir um þveran pall.

Á eftir Málugu-Guddu er geit
með grasleitna tungu og hvassa,
með Holdugu-Stínu hundtík feit,
en Herdísi grimmleg assa.
Með Signíu fór
þar svartur skjór,
en Salgerði Löngu meri stór.

En hæna filgir Hallfríði Sól
og Hildi og Gunnu og Trínu
og Þorbjörgu á Klöpp og Þórunni á Hól
og Þorgerði Fögru og Línu.
En gæsin þar er
sem gullbúin fer
hún Gunnhildur ríka að skemta sér.

Alt gengur í leikinn, og líkar það vel,
á löppum tveim og á fjórum,
og skottin hringast og skvettast stél
í skollalátum og órum.
En nú fer ver,
því að ennþá er
þar einn hópur til. Það er gestkvæmt hér.

Huldur úr hól,
tröll úr Tindastól,
dvergar úr Dvalinshöll
dansa þar inn öll,
léttfætt leika sér,
lítið á þeim ber,
hoppa á bekkjum, klifra á kistum;
innan um hljóm
og hörpuóm
dansvöll kjósa í krá,
kann þau enginn sjá;
ketill og þorn,
þússagígja og horn
taka þá að leika á listum:
Vatnsdropahljóð, ljúfan lækjarnið,
vestanvinds grát, kólgu boða klið,
hljóðskrafsins óm, andhljóð eiru við,
fallþit laufa', er fjúka af kvistum.

Hlaup nú, hoppa nú,
Grákollur, Grákolla.

hlaup nú, hoppa nú,
horfin er sól.
Hlaup nú, hoppa nú,
Grátoppur, Grátoppa,
hlaup nú, hoppa nú,
hæ! komin jól!
Trildur
galdur,
skolladans og skvaldur,
skuggi á björgum bláni.
Galdur
trildur,
trölladans og tildur,
sefur sól og máni.

Og dansinn æsist og æsist lund
og alstaðar kring
það ærist í hring;
það dansar í köpp og stekkur um stund
og steðjar með ofsalæti.
Og aldrei sá slíkan gaura gang
með hávaða, hark
og hróp og þjark;
þar dunar í mirkrinu um víðan vang
hin víni magnaða kæti.

Hringlum,
svinglum,

vefjum dans og vinglum;
brakar í bjarnarfeldi . . . . .

Hér máttu níkomna sveininn sjá;
ifir fjöll og flóð
gegnum eld hann óð;
og viljirðu mig, þú mig skalt fá,
ei mun eg við svarið smeikur.
Nú kondu og réttu til kossa munn,
þá komið er húm
ég kem í þitt rúm;
þú finnur ei slíkan á fróni' eða í unn,
hann fer mér svo vel þessi leikur.

Vinglum,
svinglum,
hefjum dans og hringlum,
húmar á jólakveldi . .
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .

Og *telpan* horfir þar heilluð á,
en hugur og barmur svellur.
Nú rekast þar menn og álfar á,
um álfinn þar dvergur fellur.
Og ljósið dofnar. Dimmbrín nótt
á dansinn skugga keirir,
en altaf fjölgar álfadrótt,
— Þá óm hún nían heirir:

Mín ást velur þig,
ég eiga vil þig,
æ un þér við mig
og heillandi, dillandi dans.

Elska ég þig,
æ elskaðu mig,
ég eina vil þig
í dillandi dans.

Æ, fríðasta frú,
nú fer ég og þú
að birja okkar bú
í Haukadal, Haukanna dal.

Rokkinn þinn, frú,
er reisum við bú,
þá hafa skalt þú
í Haukanna dal.

Þel skaltu spinna,
þrinna og tvinna,
sokk úr því vinna,
sætan mín ljúf;
eg skal þér unna,
alla þökk kunna,
hugga og hug-
svala, ljúfa.

Vef skulum vefa,
vel skal í gefa,
síst skal voð efa,
  sætan mín ljúf;
vaggan skal braka.
Vel skal ég baka
brauð okkar beggja,
  mín ljúfa.

Mín ást velur þig,
ég eiga vil þig,
æ un þér við mig
  og heillandi dillandi dans.
Elska ég þig,
æ elskaðu mig,
ég eina vil þig
  í dillandi dans.

* * *

Grátmjúkan hljóm
heirir, gígju óm; —
lokkar hann létt og hlær
líkt og sumarblær;
vaggar sér blítt,
streimir sterkt og hlítt,
deir svo út í drauma tómi;
vaknar svo við,
vegs með fossa nið,
beljar eins og brim

bjargs við rót með glim;
sigur svo í blund,
sér þá fagran lund
vafinn mjúkum ástar ómi . . .

Þar gengur fram álfur glaður á brá
með gullfesti um hárið sitt bleika
og *telpunnar* ástum hann einn vill ná,
en ómarnir kringum hann leika.
Þú, hugljúfa hír,
ef hjá mér þú bír,
í Hólaborg rokknum úr silfri snír.

Á daginn er ég hinn blakki björn,
þá ber mig um skógana víða,
þá vel ég mér bað í vatni eða tjörn
og vasla í fljótinu stríða
og dansa um strönd
og drotna um lönd
sem dregur þín sjón eða flígur önd.

En þegar dregur upp dimma nótt
og dagur til viðar er genginn,
þá heirirðu laðað og lokkað hljótt
og leikið á mjúkasta strenginn;
þú, ljúfasta mín,
þá leita ég þín
og ligg við þinn barm, þar til sólin skín.

Í Hólaborg fær þú að sitja sátt
í silki, þar lísigull bragar,
svo lengi þú sorgir þar engar átt
sem endast þér lífsins dagar.
Þú, hugljúfa hír,
ef hjá mér þú bír,
í Hólaborg rokknum úr silfri snír.

Og fölva þá réttir fram höndu hann,
en hún trúi eg stilling tíni.
En þegar nú kissa vill mærin þann mann,
er munnurinn rottutríni.
„Æ, guð minn ég bið
um frelsi og frið“.
Svo féll hún í óvit þar bekkinn við.



# Í haganum.

## Áttavættir.

Tsjú — pú! norðan Hræsvelgur hvæsir
og hristir vængina lengi.
Það ílfrar og hvín í hamrabrún
og hvítnar um börð og engi.
— Tsjú . . . . . . .

Tsjú — hú — ú! segir útnirðingsofsinn
og eirir ei skipum né viði
og ífir upp djúpsjá við dífsta grunn
og dinjandi boða út á sviði.
— Tsjú . . . . . .

Tsjúi — lú! vestan hafrænan hvíslar,
er hraðar hún utan af sjó.
Hún leikur sér glöð um lautir og hóla,
en lítt er hún stöðug þó.
— Tsjú . . . . . .

Tsjúi — lú! vestan hafrænan hvíslar
at hafseltu vot, en kát.
Hún lokkar með sól og heiðum himni,
en helst það snist upp í grát.
— Tsjú . . . . . .

Tsjú — sú! austanþirkingur þítur,
hann þunghentur er og sár.
Hann kemur austan af ísatindum
með ísadregil um brár.
— Tsjú . . . . . .

Súilú! kveður ljósálfur sunnan,
er laufgri dansar á grein.
Hann bindur í hárið blómaskúfa
en blíð er röddin og hrein.
— Tsjú . . . . . .

Súilú! kveður ljósálfur sunnan
og létt er þá fjár að gæta.
Og gott er í skjóli mót glaðri sól
er góðviðrin smalann kæta.
— Tsjú . . . .

Suilú! blessuð sumarfegurð
með sól ifir fjalli og bigð.
Þá sef eg í lingi minn besta blund
og bregð honum laus við hrigð.
— Tsjú . . . . . .

## Kalsi.

Æ, veslings giltan góða, nú gerist þér víst kalt
í slíkri vonsku vætu, er vindur lemur alt.
En fram hjá Stóra-steini mun standa betur á,
og þangað fara skaltu, og skoða, hvort þar má
skíli fá.

En kírin, hún vill heim; en þau hlaup og
þetta stríð!
hún getur ekki unað hér úti í slíkri tíð.
En ekkert hei er heima í hlöðu að gefa þér,
því spök í haga vertu og vittu, hvort ei er
vitund hér.

En undir Unnarholti má afdrep held ég fá,
og þar er best að bíða uns burtu halda má.
Og hver veit nema huldan þar hæli bjóði mér,
hún veit, hve ilt við eigum, hve ömurlegt nú er
okkur hér.

Mér gerist heldur hrollkalt, því holdvot nú ég er
og illköld ísing rennur nú ofan um bak á mér,
í fenið slapp mér fótur, með fótbúnað er ílt
en vætuþungur stakkur, þú væn ert kusa ef vilt
vera stilt.

Af vosi og kulda verkinn ég víst mun bráð-
um fá,
þá held ég heim til mömmu, þar heima skíli
að ná.

Þar fæ ég hvíld og hrein föt, þótt heldur séu þunn;
þið fáið mjöl og sull og þá svaladrikk úr brunni'
í svangan munn.

## Fuglar.

Kra! kra! segir krákan
og klífur loftið blátt.
Hún klæðist í vaðmál grátt og gott,
en glingrið metur hún smátt.

Hún fer um akrana' í flokkum
og fljót hún í snúningum er.
Og hún er mesta heiðurskona,
en henni ei trúa ber.

Hún gengur glaðleg að vinnu
hjá girðingum og vegg.
En fir en þér geti hvarflað í hug
þá hefur hún tekið egg.

Skratt! skratt! segir skjórinn,
hann skvettist og hoppar greitt,
og sperrir stélið og gnír og gargar,
en getur ekki neitt.

Hann er mesti málaskúmur
og málugan belgir hvoft;

hann gasprar, lepur og lígur við
og líka stelur hann oft.

Starinn segir: kvirrili-kvitt!
á kápuna sólin skín;
og hann er glaður og hoppandi ungi
og hreint eins og perla fín.

Erlan hún segir: tipp, tipp!
og tifar og hoppar nett.
Hún er eins og brosandi barnahugur,
svo björt og hrein og létt.

Steindepill segir: smekk! smekk!
og smjattar og skellir á góm.
En músarrindilinn þekja í þífi
hin þéttu og fögru blóm.

Lævirkinn segir: tirili-ti!
og tekur á flug upp í skí.
En þegar hann kvakar í morgun-mund
vegs mönnum gleði ní.

Lævirkinn segir: tirili-ti!
er tekur hann flugið hratt.
En þegar hann kvakar í morgun-mund
er mér í huga glatt.

Ví-vipp! segir vepjan
og varla ræður hún sér

með fjaðrir í hatti og flauelskápu
að framan silki hún ber.

Ég man svo vel hin vænu eggin
í víði og grænum reir.
Ég greip þau, en móðirin grét svo sárt;
— ég geri það aldrei meir.

En heiðlóan, brúni fagri fuglinn
með flauelsbrjóstið þitt,
þegar þú lætur í lingvögsnum móum
er ljóst mér í skapi og hlitt.

En heiðlóan, brúni fagri fuglinn,
er fer mér svo stilt á mót,
er glaðast þú singur í grónu lingi,
er mér grátur í hjartarót.

## Undir álfatindum.

Sunnan rigning, sumarúði
svífur niðrúr himinskíum,
svalar þurru sumarlofti,
sviðna döggum vökvar hóla.
Drípur bæði ljúft og lengi,
læknar jörðu, hreinsar vorið,
stittir síðan upp mót aftni
eftir þarfa og góða vinnu.
Opnast blóm og blað og andar,
brosir alt og hlær, sem lifir,
stráið litla og lingið nía,

lambagras í haga og smári.
Þetta andar þúsundfaldri,
þúsundfaldri sælu í ilmi,
þúsundföldum unaðs ilmi,
anganþrungið loftið streimir.
Og um jörð er slegið slæðu,
slæðu úr lífsins ást og hlíu
eins og þegar brúðarbarminn
bunguvagsinn slæðan vefur.

*Telpan* beitir búsmalanum
beitarland við Keiluhóla
svo og fram með Svartavatni
sefi grónu og vatnamosa.
Fárlegt er það fen að vaða
fífu þakið alt og sefi,
þar á botni langur liggur
lingormurinn stór og digur.
Féð er þar á beit um bakkann,
bítur topp af ungu lingi;
lömbin hoppa um laut og bala
leita svo til mömmu' og sjúga.
Og er sæla sumarkvöldið
sígur þítt á mörk og haga,
aftangufan hlí sig hefur
hilur alt í ljósri þoku —
t e l p a n sér og sínu gleimir,
seint og hægan þar hún gengur,
hugsar margt og hugsar ei lengur,

höfgar þá og sér og dreimir;
sér margt undir leiti lifna,
lifna sér hún börð og steina,
og um huldar akurreinar
álfahjörðu mjög vel þrifna.
Huldan búin bláum stakki,
barminn príddan silfurskrauti,
þar sem mætist þúfa og bakki
þægir salti kú og nauti.
Síðan burt hún bíst og lokkar,
bilgjast lokkar niðrum herðar, —
hjörðin sig þá saman flokkar,
svo að hömrum snír til ferðar.

Eins er það sem ótal skuggar,
er við himin ber á kveldi,
kír er bruna að bjarga veldi,
bolinn stór á eftir ruggar.

Slokknar roði af aftanseldi;
óðar fölnar skía kögur.
Hlerar í draumi hauður og lögur,
heirir söng á fögru kveldi.

* * *

Dauflegt þótti þér og mér
þar á heima-völlum;
út á stöðul eg nú fer
undir Skarðafjöllum.
Svona, kom þú, kírin þíð,
kæla' er svöl í Skarðahlíð.

Kírsáta!
Kírsáta!
Í hlíðum skal lúður láta.
Kom, kírin!
Komið dírin!
Kom, Dumbur og Drós
og Randarós
um kveld!

Undir Norðurási er gnótt,
álfa grænir hagar.
Löng er þar hin ligna nótt,
litlir sólskins dagar.
Bergið skílir, skelfir alt
skaðlegt burtu, traust og svalt.

Þegar huldi þokan ás,
þakti bjarta sunnu,
þá var ljúfust lífsins rás,
léttast dagar runnu.
Skí og þoka' er þekur hlíð,
þá er huldar sælutíð.

Dregur kveld upp dimt og svalt,
dvergur lætur skilja
að ég fjall hans fái alt,
fari' eg að hans vilja.
Daprast als hins dapra eg kann
dverg að eiga firir mann.

Huldan sára harma ber,
hún af ást má brenna
bjarts til sveinsins, sem þó er
sinjað henni að kenna.
Lit um skift ég hefði og hátt,
hefði ég hans njóta mátt.

Rís af hafi sumar og sól,
sumar og röðull hníga;
hvergi á sér huldan skjól,
hvarflar um refilstíga.
Þráin langa leiðist mei,
ljósi sveinninn kemur ei.

Kirsáta!
Kirsáta!
Í hlíðum skal lúður láta!
Kom, kírin!
Komið dírin!
Og geigandi veg
þið gangið sem ég
um kveld.

### Um sláttinn.

Nú glimur í ljánum um grösugan völl,
en grasið í múga og smáblómin öll
í hrúgur um teigana hrinja.
Og dátt er að reika um daggvota grund,

þá drjúgum er skárað um árdegisstund,
svo dunur í vellinum dinja.

Já, sláið til þrautar og þreitist nú ei,
því þekkastan ilm gefur nýslegið hei,
sem veröld sé vafin í blómum.
Þá bilgjar sig angan um bakka og lægð
og bóndinn er sárfeginn auði og nægð
og sumarsins ilmi og ómum.

Og skiftist nú sólskinið þekka við þei,
svo þurt verði grasið og hrekist nú ei.
Þess óska' eg af einlægu geði.
Því haldist nú þerrir og þurviðrið traust,
ég þarf ekki' að kvíða þér, fölnandi haust;
um jól hef ég gaman og gleði.

### Telpan undrast.

Hún er að raka, en hann að slá,
svo hlæa þau dátt og kallast á.
— Við vitum hvernig slíkt verður.—

Já, vel fer gamanið vinum hjá
á velli, er síbreiðan liggur á.
— V. v. h. s. v.

Nú, mas og spaug — ekki er margt að því,
og má vera' að ég eigi hlut þar í.
— V. v. h. s. v.

Þann svein víst hérna ei hittið þið,
sem Hólafífli ei brosir við.
— V. v. h. s. v.

Að spauga og hlæa ei hræðir mig,
en hitt, að stúlkurnar gifta sig.
— V. v. h. s. v.

Þótt vænn sé sveinninn að vegsti smár,
hann verður skrímsli eftir nokkur ár.
— V. v. h. s. v.

Þótt una megi við unglinginn,
er úlfur glefsandi fullorðinn.
— V. v. h. s. v.

Að stúlkurnar biðla hjali hlíða
og hugum glaðar til kirkju ríða!
— V. v. h. s. v.

Þær vita að þær í vesöld flitja,
þó vilja þær ekki heima sitja.
— V. v. h. s. v.

Stúlka fær kæti, kona slit,
þó kjósa þær þetta, er það vit!
— V. v. h. s. v.

Nei, fir en mig hendi sú flónska sár
hjá fénu sit ég í hundrað ár.
— V. v. h. s. v.

Og fir en ég baki mér bölið það,
ég bið mér ölmusu í hverjum stað.
— V. v. h. s. v.

Og heldur en dragast með bónda og börn
skal betlið. og flakkið mín eina vörn!
— V. v. h. v. s.

En kát má ég vera og karlmann sjá,
en kissa á skegg! Onei, laugt í frá.
— — Þó — veit nú enginn hvað verður.

# Dòmurinn.

Nú kveldar og haustar um lög og lönd
og leikur brimið um auða strönd.

Skíadöknann nú dreimir vært,
dagsins auga er brostið skært.

Þokan sefur nú þúfu við,
þungt er hugboð í lækjarnið.

Diljast töfrar og tál í geim; —
telpan skundar með smalann heim.

* * *

Við ána niðri hún eigir mann
mjög undarlegan og fjörgamlan.

Knébrjók huldi og kápa síð
karlinn, hann var frá eldri tíð.

Þá fór henni hrollur um hjartarót,
svo hræra mátti' hún ei lið né fót.

Hann bjástrar þar úti við elfarbarð,
við eldgamlan landamerkjagarð.

Bjástraði lengi í líf og blóð,
lifti og skók, en garðurinn stóð.

Lifti og skók í líf og blóð
lengi, en grjótið sem fastast stóð.

Hann hrein og grét, svo var hugraun ströng,
hrein og grét, uns það varð að söng.

* * *

Við litlu verði seldi' eg sál
og seldi mig í kvala bál;
við aumum bletti, illa fór,
ég á mig drottins reiði sór.
Nú hlít ég aldrei himna frið,
um hjálp í Ésú nafni eg bið.

Frá himnum drottinn honum veik,
sem hér á jörðu laug og sveik.
Og vini hann sér enga á,
því orðum hans ei treista má.
Ég hvarfla veglaus, hef ei frið,
um hjálp í Ésú nafni eg bið.

Mér forráð kunni fégirnd ein,
ég flutti þenna merkjastein;
og vini nú ég enga á,

því orði mínu' ei treista má.
Mig svifti himna faðir frið,
um frið í Ésú nafni eg bið.

---

# Aðsóknir.

### Mánaskinsmeiarnar.

Vefur fold sig í vetrarlín.
Viðir hafa nú fötin sín
saumað úr silfurgliti,
silfrað á laufið stjarnan skín.

Væran fold hefur vetrarblund,
vel skín máninn um næturstund.
Gimsteinar geislum stafa
greinar og tré og hrímgan lund.

Skín og tindrar þá glatt á grein
geislamergðin svo björt og hrein,
lundurinn sem með lífi
léki með perlur og demantstein.

Inn í heiðskin á hrímgri grein
horfir *telpan* í leiðslu ein;
sér hún þá margar meiar,
meiar á dansi um snjófga rein.

Meiar ljósbúnar líða hún sér,
leiðslu svipaður dansinn er;
sönglag úr svefna ríki
silfraðra klukkna að eirum ber.

Brúðum ljósum úr lofti blá
ljóma mánaskins klæði á
saumuð með silfurgeislum
síkvikum, hilja barma smá.

Hárið bilgjast í björtum straum
bakið niður líkt silfurflaum,
bjartleit und brúnum skína
bláhimins ljós í kirrum draum.

Ljúfan daginn ei líta þær,
lífsfjör æskunnar þeim ei hlær.
Dauft þær í dansi brosa,
deiandans fölva á svipinn slær.

*Telpan* hugstola horfir á,
horfir lengi með draum á brá.
Höfuð þær hneigja og kveðja,
hverfa í loftið sem þokan grá.

## Helgibrot.

Og stúrið fálátt fer
nú fljóð til verka,

í huga hrollur er
og hræðslan sterka.

Er boðuð feigðin föl
af fölvum meium
og eilíf dauðra dvöl
á Draugaeium?

Þótt hamist hafsvalinn,
samt hitinn brennir,
og stinginn sama sinn
hún sáran kennir.

Á beit með féð hún fer
og feigðir dreimir
og harm í hljóði ber,
en hinu gleimir.

Um helgi hún svo fer
til helgra tíða
og bætur higgur hér
síns hugarkvíða.

Með vætu vindurinn
af víði glimur,
slær hreggi og kalsa á kinn,
en klukkan imur.

Hún gengr um grafir ein,
en glúpnar lundin,

og hvítnað hittir bein
og hirðir fundinn.

Og barm sinn bjartan við
því beini heldur,
svo burt það búist lið,
er böli veldur.

## Krafan.

Hún heirir vindinn gnía um gátt
og gráta og láta um miðja nátt,
í gusti stinnur stofa.
Og skjálfti og hiti skiftast á,
en skugginn fer sem hægast má;
hún fær ei frið að sofa.

Og hugann æsir óráð margt,
á útidir er barið hart;
þá bíst hún fljótt til farar.
Hún stekkur upp og út í dir
og út í mirkrið gesta spir.
— En enginn úti svarar.

Og þrisvar slíka för hún fer,
en frammi ekki neinn þó sér.
Nú fer að þverra þorið.
Hún hælir sig í bekkinn sinn
og biður þrisvar himininn
og fer með faðir-vorið.

Hún liggur svo í svitalaug,
þá sér hún koma á gólfið draug,
en jörðin var hans vegur.
Sú vofa starir stilt og föl
og staulast hægt að sængurfjöl;
hinn dauði fótinn dregur.

En hrollur kalt um hana fer,
því hún á dauðs manns valdi er,
og geðið óttinn ærir.
Hinn dauði fer með fölvan arm
og fálmar inn á nakinn barm
og beinið hendi hrærir.

„Það er mitt, það er mitt“ hann muldrar hás,
„hinn máttka braustu vígslu-lás
og sköflung, stelpa, stalstu.
Kom, legðu' hann aftur leiðið við;
í leiðinu ég hafði ei frið,
er bein mitt firir mér falstu.

Hann fer — og svanna svefn af brá,
í sænginni hjá mömmu þá
hún grátandi sig geimir.
Hún segir henni alt sem er,
þá eiðist kvíðinn, ráð hún sér
og brátt í dvala dreimir.

Um húsið stormur streimir.

## Í þokunni.

Við gluggann starir hún stúrin ein
í storm og regn með sitt dauðs manns bein.

Þá vaknar kvíðinn í higgjuhil;
hún hefur sig skrautklædd ferðar til.

Í líndúk vefur hún lítið bein
og leitar í þoku til kirkju ein.

Þar grefur hún handa því gröf í leir,
er gröfin er búin, það sést ei meir.

Og hræðslan grípur nú hug og geð,
er horfinn er dúkur og beinið með.

Og hvar hún stendur, hún varla veit,
en verður þó firir að hefja leit.

Hún leitar og mold upp grefur og grjót;
hún grefur uns blæðir úr naglar rót.

Og leitar uns helaum hönd er þreitt,
en horfið er beinið, hún finnur ei neitt.

Þá gerir þrusk út í garðsins krók,
þar gráálfur sig í hlátri skók.

„Þú gleimdir mjólkinni minni í gær,
og maklega fer nú. Ja, þér var nær!“

Svo þítur hann eins og elding frá,
en ilfra í gustinum regnvot strá.

Sem þrumu lostin þar hún er,
en þunghentur stormur leiðin ber.

Þá heirir hún umlað und iljum sér:
„Aftur beinstúfinn fáðu mér!“

Nú veit hún hvorki út eða inn,
en allur í þoku er garðurinn.

Úr leiðinu seilist holdlaus hönd,
hún hleipur sem má hún og stendur á önd.

## Telpan sjúk.

Hún liggur í logahita
um langa daga og nætur.
Móðirin hjúkrar henni vel
og heitt ifir telpunni grætur.

„Þú mikli í himnahæðum
harminum léttu á mér!
Þú veist hún Áslaug er aleiga mín
og ekki má taka hana frá mér.

Sonur minn silgdi úr landi,
sá var hneigður til klækja.
Mín elsta dóttir í kaupstað komst,
í kaupstaðnum varð hún skækja.

Næsta dóttir mín deiði,
það dug minn ætlaði að brjóta.
Elsku litla Lísbet mín,
þú lífsins fekst ekki að njóta.

Ég á nú ekki fleiri;
því enn af náð mig spara.
Lof mér að eiga Áslaugu' í ró,
uns eg má úr heimi fara!"

En telpan sjúka er sárveik
og svefninn flír af auga.
Í óráði mánaskins meiar hún sér
og muldrar um aðsókn og drauga.

## Bilur.

Þungt dunar nú hríðin og brakar, brestur
í bálvindi' og skafrenning köldum,
á heiðunum fjúkið og frerinn gnestur
og feikna þrumur of öldum.
Og jörðu ofviðrið örmum spennir,
en úrsvöl bálnepja landið rennir
og ísahel
og áköf él
svo alla vegina fennir

En vargurinn ilfrar í bil und bergi
og blóðstokkna skoltana glennir,

og niðrundir ís hrín nikr í ergi,
því náþef úr grendinni' hann kennir.
En dauðinn bleikur með báðum höndum
nú brimið keirir að auðum söndum
og hlær við kalt
nú hlítur hann alt,
er hrúgast náir á ströndum.

Og loftið og hlíðar og hnjúkafjöllin
alt hverfur í dökknanum saman.
Það gnestur og brakar við bjarga höllin
og brotsjór um nesið að framan.
Og hamslaus öflin nú ófrið heia
og alt til heljar þau vilja sveigja;
og hvað sem má,
sér forðar frá:
á feigðin lífið að beigja?

* * *

Hún liggur aum og sig illa ber
og einblínir fram í glugga,
því ógnar risa hún úti sér,
sem ólmast í næturskugga.
Við her þeim vill huga stugga.

Sem skuggar hájökla hnjúkum af
þeir höfuð í skíum bæra.
Í köstu fjallgarða, himin, haf
þeir hamstola vilja færa
og saman í súpu hræra.

Einn stendur til miðs í sævar svelg
og sjónum rótar frá grunni,
en annar í norðri blæs líkt belg
og bilstrokum spír úr munni.
Slíkt ógnargin enginn kunni.

Í útnorðri saman sópa fer
einn sortabakkanum þunga,
en hríðar gusum að gamni sér
blæs gígur úr fullu lunga
til voða vorinu unga.

Á Skarðahnjúk, þar sem glæpum glöð
er galdramessan um jólin,
þar freista tröllskessur tólf í röð
með töfrum mögnuðu góli,
hvort slokkna sjálf megi sólin.

Og komi þær þessum feiknum fram,
þeir fúlefldu risar vinna,
og dauðinu leggur á lífið hramm
og legstað sinn mun það finna,
en ísvöldum aldrei linna.

En sólin brosir á bak við ský,
ei buga þær ljósið skæra,
og móður dags, ofar gargi og gný,
með galdri þær ekki særa.
Það aldrei þær ætla að læra.

## Drekinn.

Hann guðhræddi Pétur mest auðinum ann
og alstaðar garða og jarðir á hann;
hann þægi víst fleiri' ef hann fengi.
En gamla konan á greiðunnið land
frá gerðinu niður á Haugstaðasand;
í það hafði' hann langað svo lengi.

Nú getur hann bráðum sér eignað það alt,
því ekkjunni' hann lánaði', er heimilið svalt
og lík mannsins burtu var borið.
Og lánið með vögstum svo vegs eins og ber
og veðið á uppboð nú hugsar hann sér
og ná því svo vill hann um vorið.

Í bekkinn hann hefur sig hvatlega sett
og heimtar af konunni allan sinn rétt:
„ég get ekki liðið þig lengur".
„Nú vilja þeir setja' okkur sveitina á",
hún segir með kvíða við telpuna þá,
„og guð veit nú, hvernig mér gengur".

Í huganum ýfast nú sorganna sár,
í sænginni er telpan sem stirðnaður nár
og kemur ekki upp neinu orði.
Föl snýst hún þá, konan, til kröfumanns:
„Já, komstu með partinn til sama lands,
— en vitandi valdur að morði".

En guðhrædda Pétri skín óttinn á:
„Hvað er það, hvað er, sem hún starir svo á?
mig felmtrar, ég vildi mig fela!“
„Æ, barnið mitt, tak þér ei þetta svo nær,
við þó skulum mat hafa báðar tvær,
— þótt ætti ég öllu að stela“.

En telpan þá opnar til orða sinn munn:
„Sko illfiglið, drekann með gin eins og brunn,
af eldi er hausinn og halinn — — —
Æ, faðir vor, drottinn, sem djöfulinn batt . . “
Hann Dáða-Pétur nú þrífur sinn hatt
og geisist á dir eins og galinn.

## Hjálpin.

Það er svo ilt um nætur,
þá að henni vofur sækja
og safnast leiðunum opnum úr
alt utan um hana sem flækja.

Og slá svo og lemja loftið
með loppnum kræklum í hrönnum,
og gapa skoltar með gisin bein
og glotta með fúnum tönnum.

„Beininu, stelpa, stalstu,
og stolna beinsins nautstu;
kaldur er dauðinn og djúp er gröf
og dauðrafriðinn brautstu.

Hún skelfur þá öll af ótta
og illa sig ber og grætur;
og gamla konan hún fær ei frið
firir þeim her um nætur.

Þá sækir hún síðast prestinn.
Sá kann í fjötur vinda
herrans sterka og heilaga orð
og heljarskarann binda.

Presturinn hár í hempu,
er hann að sænginni rennur,
hann þekkir þar öll hin illu völd;
sem eldur hans reiði brennur.

Hann ber fram úr bókum vígðum
bænir og særinga skara:
„ég særi þig hæst við herrans nafn
úr holdinu burt að fara“.

Þá brestur í viðum og brakar
og bilur í skorstein þítur
en gamla konan með gleðitárum
nú gleðst, er hið vonda þrítur.

Og telpan opnar augun
svo indisleg og blá;
nú blessar hann hana með hvítum höndum,
en hjartað fagnar þá.

„Drottinn verndi og varðveiti þig,
svo vel ég firir þér bið,
hann láti sína ásínd lísa
þér ljúft og gefi þér frið“.

Klerkur við móður mælir:
„Nú má hún þá lífsins njóta“.
Svo lætur hann fráa folann sinn
um flugstigu burtu þjóta.

Telpunni’ er hugarhægra
og hugurinn rórri á kvöldin.
Æ, herrann blessi þann helga mann,
er harðbatt hin illu völdin.

---

# Það vorar.

## Sólarlag.

Af hafi stiga huldulönd
með hlíð og mó,
þau hvíla út við himinrönd
í helgri ró.

Að úðabaki oft ég sá
þau undralönd;
en aldrei mátti eg þér ná,
þú unaðsströnd.

Þar sofa fjöllin díran dag
við djúpan ál;
en svo um stund við sólarlag
þau sveipar bál.

Er dagur eins og eldur og blóð
að unnum snír,

þá logar upp slík undraglóð
og æfintír.

Um jökul leikur logi hár
svo ljómar af
og roðnar himinbogi blár
og brennur haf.

En ljóminn hverfur hratt af strönd
og himni og sjó,
og aftur hvíla huldulönd
í helgri ró.

Og löngum þangað langar mig,
er líður á dag,
en landið first má sína sig
um sólarlag.

## Vordagur.

Nei, enn hve vorið huga hlær
og himingeimur blár og tær!
Nú dansar líf um land og sjá,
hve ljúft að mega horfa á.

Nei, enn þann dag sem guð minn gaf
með gullkrínd fjöll og svalbjart haf,
og loftið hreint um háan tind!
Og holl er þessi sólskinslind!

Og lævirkjans eg heiri hljóð
í himins djúpi ljúf og góð.
Hann flígur hátt með sönginn sinn
og seinast upp í himininn.

Og máfur rís og rétt af gnúp
sér rennir fram á marardjúp;
og fuglar kvaka og kveða um tún,
við kjarr og ling og skógarbrún.

Nú leggur sólar unaðsil
svo innilega hjartans til.
Og mildur, saltur sjávar blær
við sólu vermdum degi hlær!

Og stráin lifna, grænkar grein
og grasið vegs á akurrein
og gróðrar angan góð og þung, . . .
Æ, gott er nú að vera ung.

---

# Sumar á fjöllum.

## Á fjallvegi.

Hér geng ég ein um eiðifjöll,
en ógn um hugann fer,
þau gnúpleit veg minn girða öll
og grúfa ifir mér.

Mér verður erfitt andartak;
ég óttast þá og þá
að heira gní og bresti og brak
og bjarg mig hrinji á.

Hér birgja augun björgin grá
og binda huga minn.
Og fjallás verður vegi á
og vill mér biggja inn.

Hér er svo þröngt og auðnin tóm
og ekkert loft að fá.

Um fjöllin heiri eg einhvern óm,
sem óp úr klettagjá.

Og þótt frá hárri hamrabrún
ég hvarfla láti sín
þá birgist óðar aftur hún
af urð, er við mér gín.

Og hroll mér vekja hrikaleg
sá hamar, klettanöf,
er mæna þögul minn á veg,
sem mundi opin gröf.

## Væni drengurinn.

Þau ganga saman, Sigurður og hún,
hann sonur Ásmundar í Hlíðarkoti;
þau geta enn séð garðinn uppi við brún
í geira, sem þar skilir hlíðarbroti.
Nú hjásetunni hann skal sleppa frá
og halda á teig með karlmönnum að slá.

Með andlit frítt og augu snör und brá
um ennið lokkahárið bjart sem fennur
og hiung þunnan efri vörinni á,
en undir henni mjallahvítar tennur,
með söngvum þúfu af þúfu, stein af stein
hann stiklar létt og hlátri svæfir mein.

Hann sína skal, hvar vænn er verustaður,
og veginn þangað, dagsmörk síðan öll,
svo kenna' hún megi og kanna þessi fjöll,
þar kofi enginn sést né heldur maður.
Að fénu kinnist svanni svo mun skást,
því seinunnin er gestum dýraást.

Þau reka féð mót fögrum sumarmorni
í fang þeim rennur himinlindin blá,
þar er sem faðmist engi og grjóturð grá,
er geislinn saman þíðir himinborni.
Hún loftið hreint í löngum drekkur teig
og líf og gleði úr dagsins sólskinsveig.

Hann syngur, rekur, en er orð hann segir
hann enn á vígsl er barn og fullorðinn,
en efnið það er vindur sól og vegir,
þó veit hann mest um nautahópinn sinn.
Því markvert kann hann margt að segja um
dýrin,
en merkust er samt Þrílit, bjöllukýrin.

Og *telpunni* er létt og bjart í lund
og ljúft að hjala slíkum vinarmálum;
hann betur kann að gera glaða stund
en gasprarar með köldum flisjungssálum
og réttu skírnar nafni nefnir mei,
en nafnið Hólafífl hann þekkir ei.

Hann sínir henni læk og laut og hól,
hinn langa Svartadal og Hverfisteininn,
er stundum þirlast eins og iðuhjól,
og ásinn þar sem faðir hans skaut hreininn
Í fagurgrænni blómgri birkihlíð
var bjarnarhíði oft i firri tíð.

Og hálft í gamni hún spir, hvort hér sé tröll,
og háðlaust svarar drengurinn á gangi:
„Hér biggja tröll og dvergar Dvalins höll,
en drjúgum fleira er þó á víðavangi“.
Úr barmi sínum Sigurður þá tók —
nú sér hún vit hans — ævagamla bók.

„Eða heldur þú að þetta ekki finnist?“
— í þessu efasvip á drenginn brá —
„en ég veit æði margan, er þess minnist,
að margoft huliðsdrótt hann augum sá.
Í bókinni, sem fir ég eitt sinn fann,
þú fær á trúnni á þetta nægan sann.“

Hún ræður varla við sig firir gleði.
Nú velur hann þeim sess við háan stein;
á kostabeit þar hjörðin unir ein,
en undrabókin skemtir þeirra geði.
Og mildum augum hún á Sigurð sér;
hún sér að góður drengur til þó er.

Hann les í skræðunni, sem skemd er öll,
svo skírt og greitt, sem áfram sjónin flígi;

þar stendur nóg um nikur, dverg og tröll,
og nú veit ég að það er engin lígi.
Hún gleipir orðin: „Á, var ekki satt?!“
af ákefð hrópar mær með skapið glatt.

Nú mega svei mér sveitungarnir hlæa,
first Sigurður og bókin trúa því.
— Þau sitja ánægð saman grjóti í
í sagnakepni, en hvorugt má nú vægja.
Þau borða síðan saman nestið gott,
en Sigurður ei man að halda brott.

Hann heirir nú og hnikkir næstum við,
en heita verður þagnar um að geima,
að hún er þeirra ein, er eigir lið,
sem er á sveimi' um mönnum dulda heima.
Hann lofar þögn. Hún þilur öllu frá.
Hann þegjandi með lotning hlíðir á.

En skuggar hækka, gola kvöldið kælir,
því komið er að miðjum aftni nú.
Hann kveður hinsta sinni sú og kú,
en sérstaklega Þrílit við hann gælir.
Hún stendur ein og þögul, þá hann fer.
En Þrílit síðan henni kærust er.

## Á hjásetuhnjúk.

Hér urðin og grjótið er svo þétt,
og auganu geig þau vinna.

En hamingjan gaf, ef horfi' ég rétt,
að hafið má ég finna.

Æ, drottinn blessi hinn bjarta sjó,
er bláhring vindur að löndum.
Og drottinn blessi hvert flei, er fló
með farmenn heiman af ströndum.

En stórgríti, drangur, hamrahöll
í holurð er sundur brostið
sem væri hér þussar og þrálát tröll,
er Þór hefði rothögg lostið.

Ég óttast nípu og nöf og klakk,
sem niður að grunni hrundu.
Það er risi og grálind gígr, er sprakk
um gullbjarta morgunstundu.

Og firrum reindu þau fangatak
við fagra guði og sveina.
Af falli þeirra varð feikna brak
sem fjallskriðu urðarsteina.

Og fætur duttu ifir háls og haus
og hendur. Alt varð að steinum.
Og hérna liggur nú hlífðarlaus
sá heimur úr tröllabeinum.

Í logni við brattan bjargagnúp,

þar blunda á vötnum skuggar,
þar sofa botnlaus svalköld djúp,
við sortanum huga stuggar.

Ef dimt er veður og vott um kvöld,
í vatnsmáli nikrar skríða;
er þeir ílfra', en bergmálar auðnin köld,
mun allskamt heljar að bíða.

Æ, hér vill álaga-urðin þétt
með illvætta töfrum ginna.
En hamingjan gaf, ef horfi' eg rétt,
að hafið má sjónin finna.

## Þrílit.

Æ, Þrílit, Þrílit, væna vinan mín,
mér verður grátsamt nú um daga langa.
En strjúk mig hlítt með þínum hreina vanga,
því hugulsemin þér úr augum skín.
Ef nærri mér ég heiri í hlíð til þín,
þá higst ég síður einmana að ganga.
Æ, seg mér, hvort ég hefi nokkra von,
ef hugsa ég um Sigurð Ásmundsson.

## Þrá.

Hún baslar ein út'í eldhús-krá,
hún mamma.
Hún er svo gömul og elligrá,
hún mamma.

Æ, væri eg kisa, sem kúra má
þér kirlát malandi inni hjá,
elsku mamma!

Við engri vinnu hún veigrar sér,
hún mamma
og sláttu-fólkinu fæði ber,
hún mamma.
Æ, væri eg Álfstaða-Hildur há,
sem hvíldarstundunum una má
hjá þér, mamma!

Hún gengur kirlát á grundunum,
hún mamma,
með spörfugl hoppandi í hælunum,
hún mamma.
Æ, væri eg spörfugl, er ljúft og létt
sér leikur dansandi og fer á sprett
hjá þér, mamma.

Hún fagnar, sólin er kissir kinn,
hún mamma;
og eins er heim rennur hafsvalinn,
hún mamma.
Æ, væri eg hafrænan vot og þíð,
ég vildi svala þér alla tíð,
elsku mamma!

Af gigt í bakið oft fær hún flog,
hún mamma,

er fer um eldhúsið svala sog,
hún mamma.
Æ, væri eg hurðin, ég vefði mér
svo vel að stafnum, að hlífði' eg þér,
elsku mamma.

*

Ég veit svo glögt, hvað hún hugsar um,
hún mamma,
er situr hugmóð hjá hlóðunum,
hún mamma.
Þá man hún oft ei sitt strit og stríð,
en starir þungbúin langa hríð
út, hún mamma.

Þá man ei strit sitt og störfin öll,
hún mamma,
og starir út upp á eiðifjöll,
hún mamma.
„Æ, hve mun auminginn una sér,
sem ein og döpur um heiðar fer?"
spir hún mamma.

Æ, hugar míns ef þú þektir þrá,
þú mamma,
til stöðva sem ég hef ástir á,
þú mamma!
Hér geng ég alein um eiðifjöll
og angruð sofna ég kvöldin öll,
elsku manna.

Alt ilt og nítt, sem ég aldrei sá,
þú mamma,
mig köldum stálglirnum starir á,
þú mamma.
Við engan festi ég ást og trú
og enginn reinist mér líkt og þú,
hjartans mamma.

Ef tímann grátið ég gæti í hel,
þú mamma!
Ég daga, nætur og tíma tel,
þú mamma.
Og gæti eg flogið, ég flítti mér
og fengi að sitja um stund hjá þér,
elsku mamma.

## Á berjamó.

Mér blá þikir hlíðin hér!
Og hér skal ævin mér linda.
Nei, en þessi blessuð ber,
sem breiðast um mó og rinda!
Að finna svo fagran blett!
Á fjöllum sumt er þó gott.
Nú vil ég verða hér mett,
og vart ég snemma fer brott!

Nei, en hvað mér er nú dátt!
Mér allvel til þikir haga. —
Og dældin og barðið blátt
af berjum til margra daga.

En blessað bragðið þá!
sem buðlungs í sölum hátt
það vínið, vænst er má fá.
Hér verður mér glatt og kátt.

En bæri að björninn grá
mjög birstan, að afli raman,
ég vart þirði' að irða 'hann á;
en una mættum við saman.
„Æ, lítillæti þitt hér
nú, ljúfur minn, skaltu sína
og fáðu þér bara ber,
við bæði skulum hér tína“.

En beri að rauðan ref,
þá rakleitt hann burt má snáfa,
eða högg ég honum gef,
þótt hann ætti að bróður páfa.
Því árans ófétið það,
hann ásækir lömbin mín,
er klækjum kemur hann að,
og kann ekki að skammast sín.

Ef úlfinn, þann illa þrjót,
ég að sæi steðja fráan,
ég lurk mér rifi með rót
og ræki 'honum bara á 'hann.
Því rækalls ræninginn sá,
hann reif sundur búféð mitt.
Ef hann sig hér léti sjá,
ég held 'hann fengi þá sitt!

En hirfi' hinn híri sveinn
nú hingað frá vinnu og slætti,
ég gæfi 'honum á 'hann einn,
en ekki með sama hætti.
Hvort dregur drauma á brá?
Nú dettur á kvöldið svalt;
til smalans þarf ég víst þá;—
og Þrílit dreimir um salt.

## Samfundir.

Um sumardag hún situr ein í hlíð,
þar sækja á hugann ljúfir ástardraumar,
í hjartaslögum höfgir renna straumar
og hugarþráin vaknar mjúk og blíð.
Þá hillir undir einhvern uppi' á brún;
þar er þá sveinninn góði, en roðnar hún.

Af feimni helst hún felast vildi þá,
en fær þó aðeins horft á sveininn þíðan,
þau heilsast mjúku handabandi, síðan
veit hvorugt neitt að birja talið á.
Af undrun henni orð af vörum fór:
„Nei, ósköp sínist mér þú vera stór".

Hann brosir, roðnar, teigir lið og legg:
„Það lærist, sig ögn mannalega að bera
og fullorðinn í hug og háttum vera".
— „Ég held þér sé nú líka vagsið skegg".
„Það var nú áður", aftur svarar hann,
„en eitthvað lengra vera það nú kann".

Sér endilöngum undir hæð hann slengir
og óðar tekur nesti úr vasa sér;
og þikist maður eins og aðrir drengir:
„Sko eggin, sem ég tók með handa þér“.
Hún hlær og sest þar helst hún sjónar nítur,
en hjartað berst, og af honum ei lítur.

Svo sitja þau nú þennan hlía dag,
hann þíður, mærin sinnir hlátri einum
og er svo kát sem fugl á grænum greinum,
en gleðin fær þó ei sitt rétta lag.
Nú, er þau skildu hefja og hafa gleði
er horfin einurð skjótt úr meiar geði.

Hann vill fá sögur, sögur engar fær;
á sjónum þeim, er hana löngum dreimdi,
en nú í svipan öllum aftur gleimdi,
hún engum tökum þennan daginn nær:
„Nei, látum tröll og álfa eiga sig,
því eg vil langtum fremur hlíða á þig“.

Hann segir feginn föður síns af garði,
er fá hann skal og þar sem barn hann var;
og fjórar kír hann fóðra segist þar,
er fengsæll rétt hann leiti þar að arði.
Og hvert hans svar hún treistir óhrædd á,
um alt hún spir, vill grein á mörgu fá.

Svo fara þau með hlíð og hvammaröndum
með higna kú og annað smalafé,
og er þau bæði telja að trigt það sé

þau taka fisk í læk með berum höndum.
Hann steikja þau á glóð sem gefast má
og góða malinn sinn þau tæma þá.

Já, slíkt er gaman, væri ei til ama
að einhver rækalls feimni veldur því,
að horfst þau geta ei lengur augu í —
nú einurð beggja er farin veginn sama.
Ef þetta eina ekki milli bæri,
hve einstaklega gaman þá það væri!

Þá dregur bliku upp í bjargi og hól,
nú bergmál vekja þrumur, regnskí svífa.
Þau verða sèr und Smalahamri að hlífa
í helli einum; þar er besta skjól.
Hann þröngur er, þó verður hans að vitja
og vænt er inni þar í skjóli að sitja.

Og eftir því sem aftni líður nær
þeim öldur löngunar í brjósti hefjast
um hálsinn armar alt í einu vefjast,
með unaðshrolli kissast sveinn og mær.
Þeim hverfur alt. Og heitrar sælu blund
við hjarta sveinsins á hún þar um stund.

## Kiðlingadans.

Að hoppa og skoppa
og kappi keppa
er kiðlings lag

með stökk og læti
á léttum fæti
um ljósan dag.
Og leikum létt í sól
um ljúfan blett í sól,
og geislar glitra í hlíð
og geislar titra í hlíð
og svo er kæti
og sífeld læti
um sólskinsdag.

Og upp með hnakkann
og ofan bakkann,
sér tilla á tá!
Og allvel njóta
skal fimra fóta
með hlaupin há.
Hve ljúft að leika í sól
og ljúft að sleikja sól!
Og raddir hljóma í hlíð
og allir óma í hlíð
og lóukliður
og lækjarniður
og logn er á.

Og stígum tíðan,
en stöngumst síðan
þar ofan á.
Og kapp ég síni,
en koss á tríni
þú kant að fá.

Nú dönsum hratt í hring,
því hér er glatt í kring,
og leikum létt á tá
einn lítinn sprett á tá,
og höldum saman
og höfum gaman
og herðum á.

## Ást.

Hinn glaði sveinninn með geði öru
mig gerði fangna sem rjúpu í snöru;
hann kvíðir engu, því veiði er vís,
hann veit að fuglinn ei losna kís.

Ég vildi að allfast þín bönd mig bindi,
til banda þinna sem mest ég findi,
svo fast að vefðir mig þú að þér,
að þessi veröld öll hirfi mér.

Ef töfra særing og seið eg kinni,
ég saman við þig að fullu rinni;
eg skildi samvagsin sífelt þér
og sífelt værirðu þá hjá mér.

Æ, þú sem bír mér í brjósti inni,
þú brást mér herfjötri á sál og minni;
og hver mín hugsun, sem hrærir sig,
hún hvíslar bara um einan þig.

Og þegar sólina sé ég skína,
nú sér 'hún, hugsa ég, vegu þína;

er dagsins skin birgja skugga tjöld:
æ skildi 'hann hugsa til mín í kvöld?

Er vindur hart ifir heiði svífur:
hann hár þitt glóbjart í lokka klífur;
er setur grát að þér, sortaskí:
hann sjálfsagt gagndrepa er af því.

Ég vildi að tíminn mér vildi hlíða
og vildu dagarnir skjótar líða; —
við söng og von gleðst ég sem ég kann,
á sunnudaginn, þá kemur hann.

## Skógargleði.

Í silki vel þú vefur
þig, veslings héra grei,
en hvar þig gripið hefur
slík hræðsla, veit ég ei.
Hvað ertu þér að þeita
og þjóta, vinur minn,
og líta til að leita
í holur allar inn,
auminginn?

Nú skín hin sæla sunna
á sumargrænan skóg,
og laufþak ljúft í runna
þér litlum hér er nóg.
Að hoppa fæti hvötum
um hlía sólskinsstund

er holt, og hægt er lötum
að fá í ljósum lund
lítinn blund.

Þú ert þó altof lítill
til eignar, héri minn,
en indæll ertu, trítill,
og eins er kjóllinn þinn.
En ef þú gott vilt gera,
hér glaður stöktu um hlíð.
Þú vinur minn skalt vera,
minn ástvin ár og síð
alla tíð.

## Umtal.

Hann birjar, bóndinn á Strjúgi
og brosir og spítir um tönn:
„Ég efast ei um að þeir ljúgi
að illvættatrúin sé sönn.

Ef lífið slíkt illþíði eldi,
sem allir þikjast þeir sjá,
er hefði slíkt voða veldi,
ei veröldin stæði þá.

Það óðar lifjaði oss elli
og örlög oss skapaði hörð,
með galdri og gjörningum félli
greipar þeim himinn og jörð“.

En húsfreia sein til svara
þá síst varð í þetta mund:
„Ég held mér sé hentast bara
að hlæa nú góða stund.

Þið þikist svo vitrir vera,
en viskan oft sveik þó lit.
Og engan vill ávögst bera
oft alt þetta karlmanns vit.

Nei, þrælbundið þí und moldu
er þussinn í svartri nótt.
Það engan fæli á foldu,
þótt fjölgi sú illa drótt.

Þótt margir þeir verði sem míið
og megnugri en gljúfra foss, —
þá vegast á þræll og þíið
til þrautar en sleppa oss.

Og hatrið er hálft og litlaust,
þótt hafi þeir læti og óp.
Því illþíðið er svo vitlaust,
að aldrei það berst í hóp.

## Kírgæla.

Æ, kírin mín væna, æ kírin fríð,
hér kátar við unum um sumartíð;
á fjöllum kjarngóð við finnum strá,

hún freiðir í dalnum hin stríða á.
Og líða finnum við ljúfan vind
með lífgandi þit um hinn bjarta tind.

Og kírin mín góða, æ kírin þíð,
nú kátar unum við grænni hlíð.
Hér skvaldrar lindin og skrafar drjúgt
og skugginn er svalur en grasið mjúkt.
Í Norðuráss hlíð er gæða gnótt,
þar gætir huldan síns fjár um nótt.

Og kírin mín besta, æ kírin blíð,
hér kjóstu þér góða vist um hríð.
Ég illirmin skal þér fæla frá
og flugur og mí skal ei til þín ná.
Hver dagur skal leikandi líða og frjáls,
er legst þú til hvíldar, ég strík þinn háls.

Svo hlusta menn bara á þinn bjölluhreim,
er báðar við komumst um náttmál heim;
úr júfrinu selur þú okkur alt
og úti á hlaði þú sleikir salt.
Og eftir mjaltir í fjós þú fer,
við friðinn og draumana unir þér.

Æ, kírin mín væna, æ kírin þíð,
mig kjóstu að draumkonu' og græna hlíð.
Þar áttum við sumarsins sælugeim,
er sumrinu líkur, við förum heim.
Þú kemur að garði sem drotning dír,
þá dást menn að þér: „Já, þetta er kír“.

# Illur dagur.

Hún telur klukkustundir kvöldin öll
uns kemur helgin, lofaði 'hann í trigðum,
þótt rigna tæki grjóti á geigvæn fjöll
að ganga 'hennar á vit í „Smalabigðum“.
En helgin líður, rignir ifir rein,
í runni situr hún og grætur ein.

Hún veit, hann sliti trautt sitt trigðaband,
hvort tímar gleði eða sorgar rinni;
hann veit að án hans ei hún lifa kinni,
en sikki þá og ræki lík í land.
En þó er kvíði í hjarta og í huga
og hræðslugrátinn má hún ekki buga.

Eitt sunnukveld hún gengur heim um haust
af hugarkvíða sjúk og ótta og þreitu.
Í helliregni og kalsa hvíldarlaust
hún holdvot mátti vasla í tómri bleitu.
Til sængur vill hún, veit að það er best
og veit það eitt og þarf þess allramest.

En nú er bóndinn kominn kirkju frá
og kátur unir dável pípu sinni:
„Ég sjálfsagt tel, hann Siggi til sín finni
ef svona ríkrar stúlku hann skal fá“.
Það hneit 'henni við hjartans instu rætur
og hún á stólinn magnlaus fallast lætur.

Og sér til angurs hún nú heira má
að hann, sem allra manna best hún trúði,
af léttúð hefur svikið sína brúði
og lagt svo huga aðrar meiar á,
en unir nú á biðils bugsum sér
hjá Björg' á Mel, sem kvenna ríkust er.

Hún vitlaus líka eftir honum er;
í allra sín hann lokkar ristill fagur;
og að sá bestur er þar ráðahagur
sem aðrir veit hann líka glögt og sér.
Við hana eina í dáleikum nú dansar hann,
en drósaflokknum hinum naumast ansar hann.

Sem öru skotinn fugl und varman væng
svo vætlar blóðið líkast heitum tárum,
nú skjálfandi og sjúk hún legst í sæng
og svefnlaus kvelst um nótt af gráti sárum.
Og hjartað berst en brenna tár á kinn.
Nú bani er vís; hún misti ástvin sinn.

## Við hjásetulindina.

Þú blíðstreima lind,
þú blíðdreima lind,
þinn blástraumur hjalandi vaggast skær.
Og þvegin og hrein
þú þítur um stein

og niðandi hljótt
og iðandi ótt
í ársólu glitrar bunan tær.
— Æ, nú vil ég hvíla, hvíla.

Þú bunandi lind,
þú brunandi lind,
þér björt verður ævin í ljósri hlíð.
Með ölduföll löng
með andvörp og söng
hér líður þú fús
gegnum laufbigt hús
og líður og ólgar og svífur blíð.
— Æ, hér skal mig dreima, dreima.

Þú svalstreima lind,
þú svalhreima lind
þín sæng er und lingi við bakkann mjúk.
Þig dreimir hér gnótt
og gleimir þér fljótt
og hjartnæmum klið
veitir huga frið
og svölun, ef lund er af löngun sjúk.
— Æ, hér vil ég minnast, minnast.

Þú suðandi lind,
þú seiðandi lind,
hvað sástu á ferð þinni um langan veg?
Ifir auðn og tóm?
gegnum brum og blóm?

Er í skjól þú skautst,
er þú lést það laust?
Hvort mætti þér nokkur eins einmana og eg?
— Æ, hér vil ég gleima, gleima.

Þú óðandi lind,
þú ljóðandi lind,
hve leikandi smígur um runnana þú.
Og hlær móti sól
og hefur æ skjól
og líður svo hart
og lærir svo margt. . . .
æ hreimfærðu ei það, sem ég hugsa nú.
— Æ, hér vil ég blunda, blunda.

— — — — — — — — — — — — —

— — — — — — — — — — — — —

Grátmjúkan hljóm
heirir, gígjuóm; —
lokkar hann létt og hlær
líkt og sumarblær;
vaggar sér blítt,
streimir sterkt og hlítt,
deir svo út í draumatómi;
vaknar svo við,
vegs með fossanið,
beljar eins og brim
bjargs við rót með glim;

sígur svo í blund,
sér þá fagran lund
vafin mjúkum ástarómi —
— — — — — — — — — — —

Með kolsvart, undið laufi lokkaflóð
og lísigull á fögrum, hvelfdum barmi
og fögur silfur-bönd og breið á armi
und bjarkagreinum kveður huldan ljóð:

„Þú skalt ei gráta sveininn, er þig sveik,
með sorg í hug og kinnar tárableikar;
hann minnist þín svo oft, þar einn hann reikar
og angrar sárt, hve trigð hans reindist veik.
Hvern sáran missi seinna upp má vinna,
í sólardölum muntu hann aftur finna.

En þú sem innra sorg og söknuð ber
og sjálf mátt þekkja hjartans trega og kvíða
og veist, hve seint þeir löngu dagar líða,
nú lengur samir eigi harkan þér.
Er oft í hlíð þú heirðir strengi láta,
þú heirðir vin, sem þig má eina gráta.

Hann bróðir minn þér ann af instu sál,
um aftan grætur harpan hans í viði
og langa daga leitar hann að friði,
hans löngun til þín flitja ástamál.
Þú mátt ei köld í huga og hjarta vera
en hugsa mjúkt til þess, er slíkt má bera.

Er vetrarstjarnan hæst á himni er,
við höldum jólin fram við Skarðabrunna;
þá hetja þeir þig hátt, er ei þú sér,
en hræðstu síst, þeir vegs og góðs þér unna.
Þá sér þú alt, sem enginn veit í höllunum
og ástvin, sem þig tekur heim af fjöllunum".

Hún leið burt hljótt og hvarf í skóginn djúpa,
hin hrekkur upp og varpar léttum blund
og þóttist mega sjá í sama mund
sem svifi þaðan burtu fluglétt rjúpa.
Hún starir augum, undarlega er dreimt.
En alt, sem fir í huga bjó, var gleimt.

---

# Á Skarðahnjúk.

## Vökuupphaf.

Máninn sloknar í unnar eim
úti við suðurskaut;
stjörnur ólmar í ærslasveim
æpa frá himins braut.
Vetrar él fara' úr Jötunheim
ifir fjöllum.

Dimmbrín sveipar nú svipþung nátt
sortanum töfrað land;
dauðans kirð, en þó dunar lágt
dvergmál við klettaland.
Maurildi hvikar og hræljós blátt
ifir fjöllum.

Gellur þá lúður hirðsveins hátt
hamrinum efsta frá;

skríður úr urðum greilið grátt,
gegnir og fer á stjá.
Hingað alt það, sem hilst í nátt
ifir fjöllum.

*

Vakna í norðrinu vetrarljós
víðfleig í grænum bogum,
þeita bláloftsins út í ós
iðandi frosnum logum
eins og glitrandi eldum sjós
ifir fjöllum.

Litförul braga login fleig,
ljóshafið vegs og dvín;
stálköld geislarák svo í sveig
svalan á klakann skín,
titrar glitrar sem gullinveig
ifir fjöllum,

Ljós ifir tindinn teigist
tvinnar sig þar í hnút,
logar með ótal lita skil,
lísir um himin út.
Nú er þá höllin tjaldskreitt til
ifir fjöllum,

*

Þegar alt er nú komið í kring,
kraftalag blæs hann, sveinninn;

Satan kemur með þis á þing —
þar er hásætissteinninn —
glirnum skotrar um himins hríng
ifir fjöllum.

Koma þá dauðir draugar,
dingla og hringla bein;
firrum gengu þeir honum á hönd,
hafa nú þetta mein.
Líksöng heirir frá hlíð og strönd
ifir fjöllum.

Dvergurinn svartur og sviðinn,
svartálfur þangað snír,
hafgúa og nikra óþjóð öll
og alt, sem í klettum bír,
þangað steðja sem straumaföll
ifir fjöllum.

Galdra karlar og konur
koma um eiðiheiðar,
særing á vör, en stólpa og stöng
og staura hafa til reiðar.
Gaula ámáttkan galdrasöng
ifir fjöllum.

Nú eru allir í einum hóp,
ungur og hinn, sem dó;
Draugagjá filla og Svartasóp,

sískipa Nornató.
Kveðjur duna og hlátra hróp
ifir fjöllum.

Svartagaldur og hljóðin há
hefst eins og rok á öldum;
konungi heilsa hljómar frá
hólum og gröfum köldum.
Vakna, streima og stillast þá
ifir fjöllum.

## Drottinfagnaður.

Heimurinn hlíðir þér,
heill þú til sætis fer,
helvaldur hár.
Orka þín síni sig,
sigur þinn príði stig,
legg aljörð undir þig
og unnir blár.

Mótsnúna mæða skal
margbeigja í eimdadal
og óheill skæð.
En hinn, sem heiðrar þig,
heimsláni gleðji sig;
leið þú hann ligastig
á lífsins hæð.

Þér ávalt þökkum við,
þrisvar að hirðarsið
þríbölvum því.
Þrisvar, sem þikir vert,
þrígildur herra sért.
Fótspor vort hafðu hvert
heiminum í.

## Staðfestingin.

Bók sína fjandinn hefur á hnéð,
hraðritar blóði rauðu,
skrifar þar inn sem list var léð
lifendur og þá dauðu,
síðast alla, er nú ætla með
inn í flokkinn.

Fram þeir ganga að fjandans stól
fjálgir með bænargeð.
Djöfsi spir þá með grettið gól
gamlan og ungan með:
„Ætlið þið þessi ára-jól
inn í flokkinn?“

Svarar þar einn af öðrum: já;
andskotinn brosir flátt;
staðnæmast allir stólnum hjá,
staðfesting hefst nú brátt.
Ifirheirslulaust engir ná
inn í flokkinn.

## Svörtuboðorð.

„Hið firsta orðið er?“
— Í háttum öllum sem aðrir ver

„Og kantu annað enn?“
— Eitrað hatur við guð og menn.

„Og þá mína þriðju irkju?“
— Það er að sækja kirkju.

„Nefndu mér fljótt hið fjórða þá“.
— Filg þeim ætíð, sem betur má.

„Hið fimta?“
— Hlífðu' ei honum,
sem hamlar þínum vonum.

„Hið sjötta?“
— Vertu svín
í svanhvítt vafinn lín.

„Hið sjöunda?“
— Vinna veldur meini;
vel skal njóta og stela í leini.

„Hið áttunda?“
— Einkaverja
er að ljúga og sverja.

„Hið níunda?"
— Vertu frár á fæti
með fláttskap að ná í grannans æti.

„Hið tíunda boðorð?"
— Brjósti fláu
bróður að svíkja í stóru og smáu.

„Og spekinnar rót í hugans heim?"
— Hatrinu, sál mín, aldrei gleim.

„Og trú þín?"
— Með sanni sú hún er,
að sigur hið illa að lokum ber.

„Og bæn þín?"
— Að allan aldur sinn
aldrei skáni neitt heimurinn.

„Seg mér, hvað helst þér hugfast er".
— Að heimurinn sé til indis mér.

„Er þetta viljinn insti þinn?"
— Eg skal blóðrita samninginn.

„Og síðan?"
— Til stuðnings sáttmálinu
ég sérhvert ár kríp hér að altarinu.

*

Galdramannsefni krípur á kné,
þá kveður við gleðióp,
sem ofsastormur ílfri í tré,
frá öllum þessum hóp:
„Hann trúir á allrar ilsku vé!
inn í flokkinn!“

Ferkló fjandinn liftir,
feiknvald til eiðspjalls kallar:
„Héðan af færðu máttinn minn,
muni það vættir allar.
Tek eg þig nú um eilífð inn,
inn í flokkinn!“

## Stjörnuhröp.

Fram nú ganga þau gömlu,
galdrakonur og menn,
húsbónda segja, hvað nú er
hafst að í bigðum enn.
Fjandinn með blíðu-brosi sér
ifir flokkinn.

*

### *Finnanorn.*

Á menn og fé ég særi sótt,
svo það merglaust verði;
spilli eg öllum friði fljótt,
fár og storma herði.

*Flökkunorn:*

Ég morðró kenni þrælaþjóð
og þjóf að stinga upp lásinn;
ég særi kúna að selja blóð
og síðan dauða á básinn.

*Gulnorn.*

Ligum vefur svanna og svein
minn svikull galdraóður.
Er hvert öðru vilja hjónin mein,
þá hélar jarðargróður.

*Mögur norn.*

Ilskast læt eg mann við mann
og milli rógin bera.
Síðan öfund valdið vann
vilja þeir ekkert gera.

*Krippunorn.*

Hata eg búin dáð og dug
drenglind glæsimenni.
Þessum legg ég ligi í hug
og lævísi þeim kenni.

*Blánorn.*

Svikul legg eg lúku á
litla brjóstmilkinga.
Úr börnum móðurbarmi hjá
bí til úrættinga.

*Blindunorn.*

Ég villi sjónir margri mei
og margt læt ilt sér velja.
Hún fleigir sér undir garm og grei,
svo grátur og sorgir kvelja.

Og æfin líður við eimd og harm,
þar undir hún lotin svignar;
hjartað er orðið ís við barm,
en öllu í nándinni hnignar.

*Eldhúsnorn.*

Tældar stúlkur æri eg
að eiga börn í leini
og bera þau út; um jól finn ég
jólamat undir steini.

*Blíðunorn.*

Við sveininn leik ég og lokka hljóð,
uns ljúfa sind hann dreimir;
legg andann í bönd en eld í blóð
og ástmei og sér hann gleimir.

*Hálfnakin norn.*

Með mér til leika fer ungur út,
svo aflstraumur heilans þrotnar.
Að ending einn hann situr í sút
með sárin bundin og rotnar.

*Gleraugnanorn.*

Ég drepa lífsins vísi vil,
svo vér oss megum hefja.
Valdþorsta kvennþjóð vakti' eg til
og vildi, hún lærði' að krefja.

Nú filgir hún kröfunni frekjulig
og flest hún í botn vill teiga.
Til hjúskapar léti' hún hafa sig,
ef hann vildi börnin eiga.

*Galdrakall með mjaðardall.*

Ef að fast skal míla mann
má ei ölið dofna;
viljasljór svo verði hann
og vitið fái að sofna.

*Nakinn galdrakarl.*

Orkumenn og iðnir vel
eru oss hörðust raunin; —
eg á nautnir allar tel
áður en fá þeir launin.

*Galdrakarl með egsi.*

Við bigð ég rægi bigð mep slægð,
uns brandur hlífar sverfur,
og áttatíu ára gnægð
á átta dögum hverfur.

*Galdrakarl Ásamastendur.*

Smáan fær sá orkuarð,
sem af er skorinn hnefinn.
Hrópa eg frið í hænsagarð
heldur en binda refinn.

*Galdramaður með sóp.*

Ég særi leikandi hnokka í hól
og hjúpa þá þrælabrókum;
er út þeir koma, ei sjá þeir sól;
ég sjónina drap með bókum.

*Galdramaður með sekk.*

Á herðum þungan hef eg sekk
á harm og sindir geiminn.
Úr silfri og gulli samdi eg hlekk
og svínbatt allan heiminn.

Fátækt enga úr bítum ber
bót á þungum högum.
En ríkur pútur ræður sér
og rotnar af sældardögum.

*Galdrakarl með svipu.*

Einn ég ráska og ríkja vil
og ráðum aðra bera;
leggi eg upp, mega aðrir til,
á undan skal ég vera.

Ég hneppi í fjötur hvern þann kraft,
er hátt vill merkið bera
og legg á alt mitt hérað haft
svo hæstur megi' eg vera.

*Galdrakarl með tvö andlit.*

Ég strauminn geri að stöðuhil
og strengi skugga á dægri.
Ég aftur á bak og áfram vil
og eins til vinstri og hægri.

Nú seftjörn bigð mín orðin er
með ógn af skrítnum dírum;
vinst ekki' á né aftur fer,
hún á að verða að mírum.

*Geldingamaður.*

Mikið hafa um sig á
aumur á smáu koti,
svo fangstað megi fátækt ná
og færa að ráðaþroti.

Til afreks sá sem eðli bar,
sér unir best við rokkinn.
Ég svifti hann manndóm, svo hann var
sauða jafn við flokkinn.

*Áll galdrakarl.*

Hrakning fekk ég helst um of,
hneigist skap að illu.

Með flærð ég geri friðarrof
og fljótum svikum villu.

Í drengskap reinist lítið lið,
en lævís dugar snara.
Bigð mín kannast vel þar við,
víst mun illa fara.

*Galdrakarl með múlband.*

Ég kenni mönnum hugarhik
og helst að sinna öngu.
Því kann margur hin þöglu svik
að þegja við öllu röngu.

*Svörtubræður.*

Á bænum sífelt jórtra ég
og ég skal sálma þilja
uns líðir halda það lífsins veg
og lífsins gleima vilja.

*Stór galdrakarl.*

Vegsti hár um héraðs stig
ég held með verkin smáu,
svo hver sem tekur trigð við mig,
hann trúir engu háu.

*Hvítskeggur galdrakarl.*

Með spekingssvip með flónsku eg fer,
en fólkið kallar: þíðum,

og skilning fær, þar enginn er,
í aulakufli síðum.

Því mirkara sem ég mæli snjalt,
þess meira lof ég næli.
Ég veit að landið verður alt
að vitfirringabæli.

*Lítill galdrakarl.*

Ef á brúnir efstu rann
einn úr dalsins kreppu
ég stolnum skeitum stefni á hann
og stormi úr galdraskreppu.

Smásál fer með unaðs óp
andleisis á hjarni.
Á mér þeir allir hanga í hóp,
er háleitt ata eg skarni.

*Galdrakarlinn óheili.*

Ég irki um grös og irki um blóð
og unaðsbót í draumum,
í hvíld og ró ég hvísla þjóð,
á hana eg smegi taumum.

Nú situr maður og mær við strönd
og mæna út á víði.
Hugann dreimir um huldulönd,
en hörfar úr lífsins stríði.

*Beinagrind.*

Vilja manna vek eg und,
í víli þeir sig beigja;
þá verður sár og lífþreitt lund,
svo leggjast þeir og deia.

— — — — — — — —

— — — — — — — —

Fagnandi lofar fjandin þá
fjölkunna sendiboða:
„Starfið svo lengi, og ljóst mun sjá
lífið sinn aftanroða“.
Kann sér ei læti og irðir á
alla í flokknum.

Brennistreins linda langan þá
þeir leggja á fataborðann;
hæst er hún þess, er hlotnast má,
hin háa skottuorðan.
Ljúflega fjandinn lítur á
alla í flokknum.

En heiður þeim, sem heiður ber,
og hæst skal þeim besta veita.
En nafnbótin sú, sem æðst þar er,
hún „attaní-oss“ skal heita. —
Kölski blessar og klónum fer
alla í flokknum.

# Bænakvak.

Nú sér þar gullkríndan, síðklæddan mann,
en sveipaður reifum skallinn.
Kápan er vot sem hefði hann
í hviksindi legið fallinn.

„Hér konungur ber fram bænarkvak
hinn besti í þínu liði.
Mig, helvítis drottinn, til hjálpar tak,
svo heima ég sé í friði.

Margir una þeim létta leik
á lönd í friði herja.
Þér filgispakur að fullu eg sveik
það fólk, som ég átti að verja.

Nú burtu hræddir þeir hafa sig
og hagnítist illa verkið;
með hrolli stara þeir hvast á mig
og horfa á svikamerkið.

Æ, tak það af! Þinn undramátt
og ógnarvald ég kenni,
svo aftur megi' eg hefja hátt
mitt hreina konungsenni".

Nafn hans Satan setur í bók
með sætbros úr hjartans grunni.

Markaðan silki í faðm svo tók
og festi honum koss á munni.

„Meinsvara brennisteins bragð á vör
best er mér gleði fundin.
Og geðþekk er mér þín frægðarför,
til fagnaðar þjóðin bundin.

Á hlið við Júdas og hlið við Kark
hlaust þú hið efsta sæti.
En höfuðs þíns biksvart brennimark
burt ég ei numið gæti.

Það filgir þér ifirum ævihaf
og utar lífsins kveldi.
Það getur alls ekki gengið af
í gjörvöllum helvítis eldi.

En viljir þú firir landráð lof
og losna við höfuðbandið,
þá safnaðu, slíkt er ei um of,
illþíði um gjörvalt landið.

Kondu þér vel við klerkaþjóð,
þeir kunna lígi að sanna.
Í kirkjum þilja þeir þakkarljóð
þér og hósianna.

## Tíginn gestur.

Beinagrind þenur brúnan hest
blökk er hans kápa síð;
sigð hefur hann við síðu fest,
sitja nú vill um hríð.
Heilsar kölska með brosin blíð
um miðja nóttu.

„Höh, höh“, hást hann rimur,
„hér sér fagnað góðan.
Hér ég helst kís vera
herra veit mér sæti.

Þá rís Satan úr sæti,
seilist til ennisreima:
„Vertu, bróðir minn, velkominn
og vertu nú eins og heima.
Dansinn hefur nú hópurinn
um miðja nóttu“.

„Höh, höh“, hóstar dauðinn,
„ávalt elska ég þig;
þreittur þrælka verð ég
heims um hringinn allan,
hörðum herra þjóna,
lífi rúm að riðja.
Aldrei laun eg átti,
berst ég æ til einskis;
þótt ég öllu eiði

vegs það verra aftur.
Hér minn rétta herra
kæran enn ég kenni,
hér má huga 'glöðum
dauða dans ég troða".

„Feginn", ansaði fjandinn þá,
„fagnaðar ann eg þér,
ferðum þínum því áður á
þú oft vékst firir mér;
oft þú mér steikar bita ber
um miðja nóttu.

Er þú heggur hinn unga kvist,
indið ég best má finna,
samhentir skulum leika af list,
ljómandi sigur vinna.
Dansinn geri oss nú glaða vist
um miðja nóttu".

## Djöfladans.

Nú heirir þar hófaskell
og hamrana skeifan mer,
nú stiklar sá flokkur fell
og fimlega klærnar ber.
Sem grimmlegum gjósti níst
hin geigandi þoka í flaum
svo illþíðið áfram bríst
í æðandi straum.

Þar hringlar í hurðarlás
og hvæsir í klettató,
þar ílfrar um dæld og ás
og ílir í köldum snjó.
Þar hlimur og hrín um fjöll
sú helvítis ljóðagnótt,
er djöfuls hjú dregur öll
í dans um nótt.

Og ólm ifir stokk og stein
þau stökkva með læti og óp,
með dinglandi dauðra bein
og daðrandi skott í hóp.
En nornamál galdragjöll
þar glimja við þenna dans,
þar taka þau undir öll.
sá organdi fans —:

Hún var skörungs norn
og í skapi forn,
hafði kraft í kló
þessi Klofnings Gró;
með töfrum út
hún teigði' hann Knút
og töfraði drenginn galinn.
og Knúti leist á
og listi' hana fá,
og fór á sveim
og fékk hana heim,

sér festi — hí-hí!
hjá presti — hí-hí!
það hló um allan dalinn.

En þá varð nú dans,
þegar hún varð hans;
hún bölvaði og beit,
hún sló og hún sleit,
lék kátt um völl
við sitt Klofningströll
og háværum hlátri lét.

Þau börn valdi' hún út,
er hún eignaði Knúti',
og stakk þau í hel
og steikti þau vel
og bar fram þann mat
með bjór sem hún gat,
en Knútur át krakkana og grét.

Henni leiddíst þó slíkt þóf
og þvarg, er kunni ei hóf,
þar var ei ró
firir Refa-Gró,
hvort sem hún hló eða hrein.
Hún keirði Knútinn sinn
í kjallarann svarta inn
og eld svo bar

í alt, sem þar var,
svo hátt við himin skein.

Nú logar þó glatt,
það segi ég satt!
Hér sæng ég bí,
það svarar því!
Hér þefjar heitt
og hér þefjar feitt —
og þetta er nú steik firir jólin.
Og, hólbúi, hér
bíður ekkja eftir þér:
kom bukkur grár
þú bekrandi ár;
kom risi úr höll,
því hér fær þú öll
gæðin eins glóðvolg og sólin.

— — — — — — — — —

— — — — — — — — —

Telpan óttast. Svo illan söng
aldrei hún heirði, en galdraþröng
með hlátri þeim illa ansar
og ærist trilt, svo að gellur gnír,
sem galin dír.
Hópur af djöflum hingað snír,
og hringar skottin og dansar.

Norðurljós sloknar, skelfur, skín,
skrjáfar, vindur, en galdur hvín
í hömrum og gljufra gjótum.
Hvín og ílir þar harkið ljótt
um heiða nótt;
áfram ber djöfla dansinn ótt
að dala og hamra mótum.

*

Titrandi, nían heirir hljóm,
hreimljúfan eins og strauma óm
um dírra drauma nætur.
Stundum líkist hann ljúfum klið
í lækjarnið,
stormþit máttkum um marar svið,
og mjúkt um nóttu grætur.

— — — — — — — — —

— — — — — — — — —

Þá gengur fram álfur, glaður á brá
með gullfesti um hárið sitt bleika
og telpunnar ástum hann einn vill ná,
en ómarnir kringum hann leika.
Þú hugljúfa hír,
ef hjá mér þú bír,
í Hólaborg rokknum úr silfri snír.

Þar skaltu tignuð með ljóðaleik
og ljúflega dansinn stíga,

og, firnast skal alt, er særði og sveik,
og sorgin í gleimsku hníga.
Og óskunum þá
þú öllum skalt ná
og ótal þjónustumeiar fá.

Og ein skal greiða þér indælt hár
en önnur þér lokka flétta,
og silfurband þriðja setja um brár
en sæng þína hin fjórða slétta,
og skóna þér fá
hin fimta skal þá
en fljóðið sjötta þér kælir brá.

Hin sjöunda hefji upp ljóða leik
sem laufþit í angandi meiði,
hin áttunda gómsæta steiki þér steik,
í staupinu ölið þér freiði,
með dinelfdum dug
skal dansmeia flug
og draumómar seiða þitt geð og hug.

Hin níunda ljóðar þér lögin blíð
um lokkandi meiar og sveina,
en þú ert þar drottningin, fögur og fríð,
með fágaða dírindis steina.
Og best dansar þú,
já, það veit mín trú,
og þú svífur léttast um gullinbrú.

„Mér hugnar ekki sú borgin blá
með björtum og skínandi sölum;
en hér vil ég fagra sveininn sjá
sem sungið var mér í dölum.
Æ, sveinninn minn, þú,
ég set á þig trú
og sífelt hjá þér vil ég eiga bú“.

„Og viljirðu þenna svein þinn sjá,
þú sjónum um ögsl skalt snúa;
þú lítur hann sinni ljúfu hjá,
þar listir hann helst að búa
og hljóta þar gott
uns húmið fer brott,
en Hólafífli hann velur spott.

Í morgunsins nepju hún stóð sem steinn,
en stirðnað hjartað af klaka,
og gleðin hverfur, en harmur einn
og hugarstríðs minningar vaka.
„Nú máttu mig fá“
— hún er föl á hrá —
„nú fara í hamarinn vel ég má“.

Af gleði álfurinn hoppar hátt
og hamingju fagnar nú sinni:
„En glöð skaltu vera og gleima þú mátt,
nú göngum og sjáum mitt inni,
minn víðlenda hól
og veldis míns stól
og vitsmuni þá, er Glaumur fól“.

## Bergtröll.

Lágt til lofts. Vítt til veggja.
Vafurlogi í blám jökli.
Húm í höll.
Af silfri grjót glitrar,
glóa málmæða rúnir,
hrímkalt gusta húsin
öll.

Breitt er borð á gólfi,
bergþurs, ferleg gígur
kúra' í kring.
Urr, murr, úlfaþitur,
org og bit, gnauðan grísa
gengur um hinn víða
hring.

Rífur kló kláða hrúður,
rennur blóð, bella ræfri
skrækhljóð sköll.
Drekka fast dólgar heimskir,
birsta skap, skegla hvofta;
tríni og grön gniðja
tröll.

Hér á hallargólfi
seinlát ættin unga
heldur hóp.

Stirður er vikivakinn,
vond er reipafiðlan
þungt er sporið, söngurinn sifjað
óp.

Gnestur í mirkum gjótum,
bessi bráður lístur
hamra há.
En með ílfri og hvæsing
kló mót kló, kjaft við barka
óvinur vill þar óvin
flá.

„Illa laugst þú, álfur,
veldur hugar hrolli
hirðskríll þinn“.
„Skíst þótt skírir séu“,
skrafar álfur blíður;
„þrælaflokkur þetta er
minn“.

„Vill slíkur þróttur þræla?“
— „Heimskan er horfin afli
alla stund.
Sjálf skaltu sjá og heira.
Reina skal risavitið,
þokumirkrið í þeirra
lund“.

Gengur hann að þeim elsta:
„Hví vinna menn á vorum
á túni tað?“
— „Ha?“ spir hann á móti.
Hugsi risinn starir,
glápir með grísaaugum:
„Hvað?“

Gengur hann að þeim ingsta:
„Hví físir fljót og læki
fram í haf?“
Risinn grettir granir,
gneipur kollhúfur leggur:
„Varðar minst, hvað þeim verður
af“.

Gengur hann þá til gígjar:
„Hví grætur barn, er augun
opnar það?“
Gegnir hún: „Lát það grenja“,
gítur á Áslaugu sjónum
og hvæsir, tanngnístran herðir
að.

„Þannig er þrælum farið,
þekkja ei ransókn neina,
síður svar.

Betra er í bjargs djúpi
beiskju söngva heira,
er Glaumarr flitur hinn gamli
þar“.

## Gnöldurstaðir.

Skarðahnjúks rótum hildjúp hjá
er höll úr skínandi kopar;
hvelfingu grænni hníga frá
í húminu bjartir dropar.
Í höllinni ljósglæta blundar blá.

Og seitlandi vætlandi vatnsæðar
þar virðast í mirkrinu gráta;
þar hvæsa í skugganum höggormar,
í höllinni geispar láta.
Og lingormur sofandi liggur þar.

Hér inst í geigvænni gljúfra krá
sat Glaumarr um langan aldur
sem fúinn stofn og feiskinn að sjá
og fótlami, á hjarta kaldur.
En mosaskóf hilur hausinn grá.

„Nú þörfin gerist þess, Glaumar, full“,
þá greinir álfurinn blíði,
„að ennþá skíni þíns óðar gull,
svo ei það úr minni líði.
Því æskan kveður nú eintómt bull“.

Og hrossabrests marr og hrikt og slög
þá hálsinn vekur hinn þurri,
líkt gnauði úr nafri, gnagi úr sög
og geðvondra katta urri.
Og Glaumarsmál buna sem lækur í lög.

## Glaumarsmál.

Glaumar ljóð flitur
um fornar aldir.
Árbornir risar
réðu heimi.
Svartnætti lá
ifir löndum öllum.
Máni það ei vissi,
hvað hann megins átti,
stjörnur það ei vissu,
hvar þær staði áttu.
Norðurljós breiðan
breða giltu.
Dalur og dæld
í draumi lá.

Þá var ljúft
til leiks fara,
kljúfa björg
og blása eldi,
ífa höfin
ægiveðrum,
sköllum skella
hornum höggva

og kló klóra
kláða af eirum.
Gott var og
að geispa í móki,
logni og leti
ljúft að una,
iðjulaus
og athugasmár
og matsaddur
mega sofa.

Aldrei árgeislar
ófrið vöktu.
Aldrei sól
augu þreitti.
Enginn gróður
né grænir dalir,
né eimur
af aringlóðum.
Svaf dagur
dauðasvefni.
Hrím var jafnan
í jötunheimum.
Land var í ró
en ríki í kirð.
Þá stóð tíminn,
en þögn ifir öllu.

En illu heilli
öldum skifti.

Vindöld og vargöld
vagsa tóku.

Úgsu álfar,
Æsir komu,
sól reis
og rann dagur.
Niður seig
nifl til heljar.
Jötna öld
á enda stóð.

Vetur leið,
vor hlúði,
leisti ísa,
elfur streimdi.
Gróður hófst,
grænkaði jörð,
þéttist skógur
í þokuhlíðum.
Menn ugsu
meiar fæddust,
á sótugum arni
eldar brunnu.
Ramlega plógur
risti völl,
grænar teigðust
grundir víða.

Sól reis
og rann í mar

drottinvald hafði
dagur í heimi.
Hugsanatoga
tíminn spann,
takmarki ráðsnild
réð og speki.
Ófrið, ófrið
andinn vakti!
skil þú, æska,
hvað skilur á milli:
Andinn sækir
upp og fram,
þægan sess
þussar kjósa.

Jötunn flíði,
faldist í bergi
og huglaus skreið
í hamrakleifar;
bölvaði degi
dulinn und steini;
níðingsverk
um nætur vann.
Kæfði vor
með vetrarstrokum;
fannir skóf
í skafrenningi,
þakti grænar
grundir skriðum,
velti grjóti
og grám ísi;

alt í mirkra
múrum lukti;
skaut firir sólu
skíaflókum;
eiddi skóga,
ífði höfin;
vakti ferlegan
fimbulvetur.

En árröðull
eiddi þoku,
ísa braut
og bræddi snjóa,
alt í grænu
grasi vafði.
Lék sér nítt líf
um land og sjó;
ugsu skógar
skuggasælir.
Eiddust smámsaman
ættir jötna,
sprungu af árgeislum;
urðu að nátt-tröllum
firir hamri Þórs
og hvítum krossi.
Einn og einn
eftir situr
bundinn í bergi
og bölvar degi.
Aðrir huglausir

ástir blendu
og illa giftir
ættir skemdu,
er áttu þeir börn
með álfum og mönnum.
Nú er hóldvergur
höfðingi orðinn,
en jötnar híma
hugar trauðir;
fer æ minkandi
máttur þeirra.
Fáskrúðug er nú
ættin forna,
forngrítið sterka
farið í mola.

Heir mig, æska,
hatur lærðu!
Hraustir jötnar
nú hjálpar leita.
Skömm er félag
við skriðkvikindi
ókindur og
illþíði,
greniálfa
og galdrakindur,
þær er verstar
vissi heimur,
seiðskottur
úr svartaskóla,

ekki tröll
og ekki menn.
Geigvæn er
og grátleg öld
og geisilegir
gremjutímar.
En einn
öllu ræður
sá hinn biksvarti
brennivargur,
halti fjandinn
með hóf á fæti
að hálfu höfðingi
að hálfu prestur.
Undir hans áþján
er ég seldur;
ræður hann nú
ríki jötna.

Hefjist nú allir
ungir handa.
Vaki verðir
firir veldi jötna.
Enginn vor
má unna sér hvíldar
fir en af háum
himin boga
geislandi sól
er svift í burtu,

í Ragnarökkri
rofnar heimur.

— — — — — —

— — — — — —

Nú urrar og murrar í mirkrakró
og muldrar og frísar og hvæsir
og armana teigir, og krafsar með kló
og kjaftana skælir og dæsir:
— „Sér er hver manna-þefurinn þó!“

Hún signir sig óðar, við ærslin ljót
firir augum henni þá sirtir. — —
Þá dunar við eins og falli fljót,
en fljótlega síðan birtir.
— Skarðáss er hún þar ein við rót.

# Nú skríður til skarar.

## Haust.

Nú hafrót ákaft lemur lönd
með löðri öldu hriggja
og brotnar alda á eiðiströnd,
er auðn og vindar biggja.
Og stormsins ílfran ömurleg
nú ifir djúpi lætur,
er rokin fara votan veg
um voðadimmar nætur.

Og hafmær ólman brimhest ber
og banaspár hún þilur,
að galdri löngum lék hún sér,
er lamdi feigðar bilur.
Í saungnum heirir háð og sorg
og háska, neið og vanda;
þau verst vér heirum illspár org,
sem öllu vilja granda.

Nú skelfur jörð við unnar arm
af íss og kulda reiði
og fölvi legst á foldar barm
og flest er lagt í eiði.
Til suður-landa lóan flaug
þá löngu vegu alla;
og lífið allt í híði og haug
nú higst í dá að falla.

Nú haustsins fölvi legst á lund
og laufið deir á kvisti;
og skjótstíg var sú voðastund,
er viður skrautið misti.
Í rinda blómin-rjóð og smá
mót röðli horfðu í bláinn:
en þar ekkert úti að sjá.
Þau eru föl og dáin.

Svo fölna blómin brjóstum í
og blikna á sorgartíðum,
er slokknar von í huga hlí
af harmatárum stríðum.
Svo slokknar líf mitt alveg út
með öllu, sem mig dreimdi,
first hverfðist ást í harm og sút
og hann mér líka gleimdi.

Nú er hér vont, nú er hér kalt
mig allur harmur mæðir,
mín vonsvik tóku af mér alt

og eimdu hjarta blæðir.
Og hafið skvettir löðri á land
og lemur húsin rokið;
sem ílfur fer um eiðisand:
að öllu sé nú lokið.

## Ráðþrota.

Æ, elskhugi minn,
æ, ástvinur minn
mér innfjálgur lífstregi er missir þinn.
Öll þrá hnígur mín
til þín og til þín,
og hvar sem ég fer,
ertu hugstæður mér,
og tárin brenna mér beisk á kinn.
— Nú bíða mín skuggar einir.

Æ, lífsvonin mín,
æ, ljósvonin mín,
ég léti alt firir að njóta þín.
Já, ástin mín góð.
ég gæfi mitt blóð.
Og væri eg þitt víf,
ég léti mitt líf,
að lítið tár þér ei dapraði sín.
— Þér trúði' eg af hreinu hjarta.

Þú lagðir þinn arm
um minn unga barm,

í algleimi fann ég ei sorg né harm.
En aldrei meir
ég eiga þig má
og aldrei meir
þér í augu sjá
og grátur úrigur brennir barm.
— Böl var að þú skildir svíkja.

En hvert skal eg nú,
á hvern setja trú?
því hvorki finn ég nú veg né brú.
Alt verður mér nauð,
æ, væri ég dauð;
mér óskagjöf
væri opin gröf;
því alt, sem ég hafði og átti, varst þú.
— Æ! — aldrei glaðan dag framar!

## Mætti ég gleima.

Er huganum um þig minning mætir,
hún muna þungan og sáran grætir.
Ef orð um þig heira hlít ég, þá
ég hverf með gráti og trega frá.

Þá sorg ei mundi eg í minni geima,
ef mætti ég henni fá að gleima;
ég gengi ei frávita af harmi hér,
ef hefði eg mátt, til að gleima þér.

## Hvað er um?

*Telpan* mín, skildir þetta þú?
Ég þekki mig ei. Mér er brugðið nú.
Í leik hér um túnin þaut ég þver
og þekti ekki' að dagurinn langur er.

Sem draumur virðist mér það, sem þá
ég þekti, en nú ekki skilja má.
Söm er ég víst, get ei varist því,
að veröld ég aðra sé kominn í.

Ég sé alt, eins og ég áður sá,
en óindi er nú, sem gleði var þá.
Bærinn er eins og alt, sem er þar,
þó öðruvísi en það firrum var.

Heimilið finn ég á fornum stað,
sem firrum hirðir hún mamma það.
En indið er langt firir utan garð,
mér ókunnust þó hún mamma varð.

Ókunn er heiði, ókunn grund,
ókunni færðist á kött og hund.
Það hugsar um gleði sína og sig,
en sér nú hvorki né þekkir mig.

Kuldaleg stofan gnapir grá,
gustar ólund úr skoti og krá.

Þungt er að hræra hönd og fót,
harðsótt verður nú upp í mót.

Þrái eg sem fugl, er þröngvar búr,
þrótt til að komast fjötrum úr.
En mannlaust um vegu og vengi er. –
Nú veit ég að dagurinn langur er.

Æ, æskubærinn minn, bjartur, kir;
hér best ég lífinu undi fir.
— Nei, mamma, gleði ei get ég hér.
Mitt geð og löngun ei heima er.

## Vetrarstormur.

Lát rokið gnía og bresta og braka
og burstir hrista og veggi skaka.
Lát brotna alt, sem hér brotna má!
Það bægir sorginni um stundu frá.

Ef stormur brítur hér bjálka og viði,
í bili mætti ég una friði;
ef jörðin klofnar og gapir grund,
ég gleima kinni um litla stund.

Ef skíin félli af himni háum
og hafsjór klofnaði á tindum bláum,
og jörðin sikki þá svifting við —
ég sofnað gæti og hlotið frið.

## Í kirkjunni.

Til kirkju sní ég sem sníkjukind
þar snír minn hugur frá guði að sind.
— Æ! mig auma!
Hér hleð eg sekt eftir sekt á mig,
ef sjá eitt augnablik mætti 'eg þig.

Og takist það, af mér veit ég vart,
mér veltur blóðið í æðum hart.
— Æ! mig auma!
Alt verður sínum sem voðaglóð,
af vonum trillist í æðum blóð.

Er hverfur þú, verður aljörð auð,
hið innra verð ég þá köld og dauð
— Æ! mig auma!
Þá dregst ég heim, þótt ég hafi ei þrótt
og hugur reikar sem skí um nótt.

Og sjái eg hana, er hallar sér
á herðar breið upp að síðu þér
— Æ! mig auma!
ég veit þá ei, hvað um hug mér fer
en hrekk upp, fólkið þá burtu er.
— Æ, frelsa þú oss frá illu.

## Blóðill.

Þá dregst undan steini dvergur forn
með dindil sem bukkur, úr skalla horn.

Og síðara aldrei sástu skegg,
það sópar rikið af mögrum legg.

Og þú sást aldrei svo þrútið skinn
með þenslu sem líknar-belgurinn.

„Í níu aldir hér átti eg bú,
en aldrei var fir svo hlítt sem nú.

Svo fríða konu ei fir ég leit,
og fé þó siturðu hér á beit.

Og heimasæta þú ennþá ert,
þótt átján vetra þú bráðum sért.

En þá hefir víst um veröld skift,
ef verður þú ekki bráðum gift.

Og sköpunin er þá af órum full,
ef eignastu ei bú og rauða-gull.

Á Hólborgar álfinn hlíð þú ei
það hornum óskreitta veslings grei.

Og gegndu ekki þessum Hóla-hrók,
sem hefir ei efni á nírri brók.

Hans móðir gekk sníkjandi hól frá hól
og hann vill með ligum þig tæla, það fól.

En kjósir þú, skal ég þér vinur vera
og vilja þinn skal ég í öllu gera.

Gef mér þann dúk, er þú ber um barm,
þinn beiska og sára þar tek ég harm.

Úr honum dreg ég þitt hatur alt
það hún skal í kveld fá í matinn salt.

Á morgun þá aum hún illa lætur
en þagnar eftir tólf—þrettán nætur“.

Telpan leisir þá skakkann skjótt
en skoðar hug sinn og er ei rótt.

Á hún? Vill hún? Það er þó ljótt.
Hún rífur hann af og réttir hann skjótt.

„Hehe“ — jarma tröllsins tungurætur,
„en taka skal laun firir vökunætur.

Er konan frá Mel í kirkjugarð fer
þá kemur *telpan* í sæng hjá mér.

Af harmi skal ei þín higgja full!
Eg skríði þig alla í skínandi gull.

Eg vil ekki raupa af því happi, er eg hlaut,
en eg hef í fjósi um tólfhundruð naut.

Grísi hef ég sem síli í sjá,
á sauðina ei tölu koma má.

Ég á land úr fjalli og fram að sjó
mín fegurð er auðinum meiri þó.

Og horn hef eg fengið í ættar arf,
að aftan hef ég og slíkt sem þarf.

Bústu ei við að fá betra mann
á besta aldri og flugríkan“.

„Ég vil ekki! Deia ei hún á!“
telpan æpir og iðrast þá.

Hún biður til guðs og signir sig.
„Ég heimta dúkinn, og hipjaðu þig!“

Og framar ei hún sér þann svein;
en sér þar dúkinn við gráan stein.

Þar dúkurinn liggur en lundin viknar,
telpan af hræðslu við hug sinn bliknar.

## Óró.

Hvað verður úr, ef ég guði gleimi
og geð mitt sjúkt sig af ástum dreimir.

Hvert verður lán mitt í langri vist,
er lífsins stjórnvöl eg hefi mist?

Mitt ólán má ég ei ifirvinna
og aldrei má ég mig sjálfa finna;
því horfinn vegur og von er mér,
eg varð að finna mig sjálfa í þér.

## Bæn.

Æ! hjálpa þú, sem hjálp fær veitt,
minn harmur er svo stríður.
Í hlekkjum þungum hjarta þreitt
og hugsárt feigðar bíður.
Míns óláns ná ei orðin til,
hið illa þegar gott eg vil,
sem eldur innra svíður.

Nú hjálpi sá, sem hjálpa kann,
er huga sorgin blekkir.
Hann stríddi einn og ifirvann
og ilskuvöldin þekkir.
Nú harmsins bólstrar hranna sig,
æ, hjálpa þú, sem elskar mig,
þá hrjóta af mér hlekkir.

## Á villistigum.

Langir dagar og daufleg tíð
oft draga eftir sér slis.

Guð verndi þann, sem á viljastríð
og vonanna fer á mis.

Að vetrarlagi er veröld auð
sem verstur er kuldinn nú.
Guð hjálpi þeim, sem í hugarnauð
ei halda má sinni trú.

*Telpan* þreitist og þingist brún,
svo þjakar nú sorgin forn;
í hugar víli þá villist hún
og vingast við blíðunorn.

Til blíðunornar um nótt hún fer.
„Ég, norn, kem að hitta þig
og blíðudrikk skaltu blanda mér,
í bókina rita eg mig.

Þann drikk, sem huganum hverfi skjótt
mínum hugljúfa að réttri mei.
Ég vil njóta hans eina einustu nótt
og ánægð svo ég dei“. —

Seiðketil blíðunorn setur á glóð
svartan, og brosir flátt:
„He-he, sú leið var löngum góð,
eg læt það nú verða brátt“.

Svo hellir hún þar úr horni á glös
með hvísli og formæling,

og leggur rætur og leinigrös
í landnorðan sírigning.

I katlinum síður og kraumar mjög,
kerlingin galdrar þá:
„Nú síð ég táranna saltan lög
og sárustu hjartans þrá.

Nú síð ég úr meiar barmi blóð,
sem brennur af ástarþrá,
ég síð með galdri, ég síð á glóð
og seiðrótaglæðum á“.

*Telpunnar* þá hún blóðgar barm,
blóðdropa tekur þrjá.
Úr galdraketti, á eiginarm',
annað eins tekur þá.

„Nú særi ég brigð og særi mein
og særi með töfra valdi
þrísæring. Inn í blóð og bein
nú blekking og gleimska haldi.

Í Hlíðarkoti ég særi svein,
mín særing skal bregðast ei.
Og hug hans skal hún nú eiga ein
hún Áslaug, hans rétta mei“.

Það vellur og kappsíður katlinum í
og kafþikkur reikurinn er;

nornin bölvar og blæs þar í,
en brak um þekjuna fer.

„Flutt er nú særing þessi þrenn
þrisvar við svarta kallinn.
Andskoti! Andskoti! Æ, ég brenn.
— Nú eru þau bæði fallin“.

Nornin sviftir til sviðinni hönd,
síðan var grafarkirð.
Af hræðslu stendur Áslaug á önd
og er sem viti firð.

Alt riðar og veltur og vaggar á stjá,
sem væri það alt með lífi . . . .
Hún hittir sig sjálfa first heiðinni á
á hlaupum í urð og þífi.

## Hún vaknar.

Þá fann hún andað orði þar,
æ, elsku mamma, hvíslað var.
Þá hljóðnar hjartað klökkva.
Hví hugði' hún þvílíkt ódæði' á,
að aldrei mætti' hún hana sjá.
En hér tjáir ei að hrökkva:
í hilinn djúpa að sökkva.

Af sneipu og sind nú sirtir að,
þá svífur kona ljós þar að

sem mundi mjallar fenna.
Á hjúpinn ljósi björtu brá.
Hún bæði fellur kné sín á
og hönd í hönd vill renna;
þar hún má sistur kenna.

„Æ! elsku sistir, ertu hér?
nú aumur dauði er ráðinn mér,
ég er í heljar haldi.
Mín sind mig lagði í Satans hönd,
hann setti mig í ramleg bönd.
Að sindar svo ég galdi
ég sór því illa valdi“.

„Að höfundi sólar haltu þig
og hann mun ennþá frelsa þig,
þú sistir, sorgum kæra.
Þig hefja skaltu skjótt í rikk
og skila þessum sindardrikk.
Að þola þú skalt læra!
því þér er huguð æra“.

Þá svífur burtu sínin hröð,
en sistirin í huga glöð
nú vonum vígir þorið.
Harður er rauna hagurinn,
en hún vann loksins sigurinn,
úr hættum best fékk borið
að biðja *faðir-vorið.*

Og hún á þreittum fótum fer
uns fram að nornar kofa ber
og dirum opnum dengir.
„Mér hugnar ekki hjálpin þín
og héðan sveigir leiðin mín“
Og flösku á fölvann slengir
og fjötra af sér sprengir.

## Raunastund.

Að vetrarlokum líður,
hann legst nú í sumardraum.
Nú dökknar dalur fríður
og dunar í flæðistraum.
Á gljúpum götum breiðum
ei gefur færi nú.
Það rignir hátt á heiðum
og heima ifir bú.

Og ein er aldin stofa
og inni sængin mjúk,
þar ein má Áslaug sofa
í óráðsdvala og sjúk.
Í draumi dularrómar
þá drósar fara á vit,
er munnum ótal ómar
í ungum vestan þit.

Við sorgarlög hún liggur
og ljóðin vestra góð

það vonar hún og higgur,
sé hennar grafarljóð.
Er brúðhjón koma í kæti
frá kirkju með glaðar brár
fer allvel að þeim mæti
hún Áslaug kaldur nár.

En svefn til afls og irkju
er æsku sem vor á tún.
Er brúðhjón komu frá kirkju,
var komin á fætur hún.
Hún sat við gluggann svala
og sá til norðurs þar; —
en skært lék skin á bala,
er skarann framhjá bar.

Hún sviða sárt þá kennir
til sængur staulast veik.
Og harmur huga brennir
en hún er föl og bleik.
Hún daga og naprar nætur
ei neina hvíld má fá,
og hugur helst það grætur,
að hún ei deia má.

En hagl að húsum setur
með harðri skafrenning,
því vorhret eftir vetur
nú vefst um foldar hring.
Og um þá illu tíma

má ei á milli sjá,
því sú er síðust glíma
áður sigri vor skal ná.

## Í Hólaborg.

Nú drungað og deigt er loftið,
og drípur af kvisti og runni,
og þokan hrannar sig harla dimm
frá hafsins og loftsins grunni
sem skugginn og nóttin grá og grimm

Nú felur hús og hæðir
og hóla og börð í flóum,
sem sólgið hefði það hafsins unn
er hauður í þokusjóum;
sem hvíli nú alt við hafsins grunn.

Og *telpan* nú sauðfé sækir
á sortulings dimma móa.
Og vestan hafrót heirist af sjó,
en hvinirnir flestum óa.
Að hálfu bráðnum er hætt á snjó.

Í mirkri hún missir vegar
og mjög um heiðarnar villist.
Hún gengur á hljóð og geigandi óm
og gliminn, er áin trillist.
Þá vakna þussar úr vesaldóm.

Ur lignum lækjahiljum
þá líða dimmir skuggar.
Nikur þar sér og hálfan hest
en hafskrímsl á eftir ruggar.
Alt otar sér fram, sem það orkar best.

Þeir fara úr hól og hömrum
og hellum skuggalegum
inn ifir marglitt míra flóð
á mörgum krókavegum.
Af förinni berast hróp og hljóð.

Í draumi sárum hún svífur þar,
en sorgin vakir í minni.
Þá dansa álfar um hana í hring
hún er sem lokuð inni,
og þokuveggurinn þétt um kring.

*

Nú varkár iftir hún augnabrún
og eigir þá fagurt konungs tún.

Ferhirndur garður, feikistór,
fágar hann mánageisla sjór.

Súlnagangur þar allstór er
utan um túnið, og vel það fer.

Gull-blátt er ifir, en undir þak
smiður úr silfri súlur rak.

En bogar súlurnar saman binda
og saman orma og dreka vinda.

Björt og fögur er háreist höll
og þakin skínandi eiri öll.

Í skíin oddum þar turnar tína;
úr gulli þar veður vitar skína.

Þar stendur hún og er hugum fangin
en hirðmenn filla þar allan vanginn.

Þar lísir af gulli og glitrar á stein,
þar glóa perlur og fílabein.

Þar meiar klæðast í ljóstært lín,
á silgjur úr gulli og silfri skín.

Og bráðum kveður við bjalla smá
svo blítt, að telpan þá gráta má.

Þá heirir margþættan söngva seið,
og sárt hún grætur og hlær um leið.

Að síðustu heirði' hún svo ljúfsárt lag
að aldrei varð svo bjart hennar ævidag.

Og meiarnar ljósu fram líða í röð:
„Hér mátt þú æ vera hugum glöð.

Sjá konunginn; ef þú vilt hér vera,
þá skaltu drotningar djásnið bera“.

Á Hólborgarálfinn horfir hún þar,
með kórónu og skínandi skrúða hann var.

Kórónan lísti sem glóandi glóð,
purpurinn var rauður sem rennandi blóð.

Veldissprotinn blikar sem brennandi steinn,
sem eldurinn ljós og sem loginn hreinn.

Tígulegur filkir og fagur mjög er; —
alla þessa príði hún eiga vill sér.

Um túnið er dansað við hreinan hljóm,
fiðlunnar lokkandi unaðar óm.

Slíkt indi firri aldrei hún sá;
þær spurðu hinar, en hún sagði já.

Þær meiar klæddar í ljóstært lín
nú færðu henni í staupi fagurt vín.

„Drekk þú, þá kemst þú í konungsins borg
og þá kætist þín lund og þú gleimir sorg.

Set það á munn þér og súp það út,
þá gleimist harmur og gleimist sút.

En hika má nú ei hugur þinn,
því nú bíðst þér þetta í síðsta sinn".

*

*Telpan* bliknar um brá og kinn
og beiskur vaknar nú harmurinn.

*Telpunni* bliknar nú brá og vangar,
vaknaður hugurinn viljann fangar.

„Á ég að gleima hugarins harmi?"
— „Harmana slökkum við þér í barmi".

„Slökkvi þið eldinn, sem innra brennir?"
— „Þá af er drukkið þú hans ei kennir".

„Ef vilji þið tæma minn harma hil,
— ég hann ekki læt firir neitt, sem er til.

Og heldur en frá mínum harmi að víkja,
firir hvers manns dir skal ég ganga og sníkja.

Og fir en sorgin mér firnist heit,
ég flón skal kallast í minni sveit.

Og heldur en gleimist minn elskhugi önd,
ég óvirt skal flakka um lönd og strönd.

Ei annar neinn skal í faðm mig fá; —
svo fer ég í Ésú nafni þá".

— Þá er alt horfið. Í þokusjóum
hún þikist sjá firir hverfandi róum.

---

# Laus.

Er nóttin seig á lönd og lá,
hún leit við rúmið konu þá
í svörtu, síðu klæði.
Og sistir hennar hjá þar stóð
svo hír og björt sem geislaflóð
og brosmild, blíð í æði
hún birjar ljúfmált kvæði.

„Nú vænkast, sistir, víst þín kjör,
þér valin er nú betri för;
þig helgi-klukkur kalla.
Þú síðast vanst á svikum bug
og sorg þinn hefir göfgað hug.
En stíg nú ifir alla,
þér er ei hætt að falla.

Kom filg nú okkur um þann stig,
sem upp úr mirkheim leiðir þig
í ljóss og birtu lendur.

Þótt brekkan sú sé brött og há,
mun betra að leggja hana á.
Þú þreitir hug og hendur,
en heima að lokum stendur.

Þér stendur viskuvölvan hjá,
hún vill þér kenna djúft að sjá
og þér til varnar vera.
En svo þú nemir lífsins lög,
hún leiðir þig um Niflheims drög,
því skelfing skal þér bera,
hvað skaltu' og áttu að gera.

